# Sálmar og Bænir

sem brúkast kunna

vid

Húsandagtar Æfingar.

Utgéfid

af


J. Jónssyni,
Presti til Grundar- og Mødruvalla-Kyrkna
í Eyafirdi.



Kaupmannahöfn.
Prentad hjá S. L. Møller.
1832.

# Lagfæríngar.

## Í fyrsta Flocki:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Bladſ. 5 | lín. 18 | Einíng þrenn og frí! | les: Eining þrenn! og frí o. ſ. v. |
| — 13 | — 9 | talid | l. falid |
| — 16 | — 28 | Fadir | l. Frelſari |

## Í ødrum Flocki:

| | | | |
|---|---|---|---|
| — 20 | — nedſt. | heidrist og þitt | l. heidrist þitt |
| — 22 | — 10 | þitt ríki heilagt | l. þitt nafn er heilagt |
| — 23 | — 1 | tídum | l. lýdum |
| — 25 | — 14 | trúfesti | l. trúfeste |
| — 27 | — 26 | medlæti | l. medlæte |
| — 28 | — 24 | vegſamadist | l. vegſamist |

## Í þridja Flocki:

| | | | |
|---|---|---|---|
| — 39 | — 15 | uppá þig blód | l. uppá ſig blód |
| — 40 | — 21 | adkominn | l. adkomin |

## Í fjórda Flocki:

| | | | |
|---|---|---|---|
| — 3 | — 4 | Sálar hag | l. Sál í hag |
| — 3 | — 10 | unn oſs ad ná | l. unn oſs ná |
| — 6 | — 2 | hrygd | l. brygd |
| — 13 | — 13 | oſs ad | l. oſs ſo |

Hér fyrir utan eru adgreiningar-teikn misſett hér og þar. Hvad fleira hefur yfirſéſt er leſarinn bedinn ad lagfæra.

# Nockrir

# Vikudaga Sálmar

og

# Bænir

til

# Húsandaktar.

Utgéfnir

af

J. Jónssyni,
Presti til Grundar og Mödrufells.

Kaupmannahöfn.
Prentadir hjá S. L. Möller.
1832.

# Nockrir
# Viku-daga Sálmar og Bænir
til
# Húsandaktar.

## Fyrsti Flockur:
### Sálmar og Bænir, líks innihalds.

### 1'ti Sálmur.

Lagid: Hvíld er þægust þjádum, o. s. frv.

Lof þér, ljóssins Fadir! er ljósin tvø skapadir, nátt-úru bædi' og nádar, er næra á sinn hátt bádar; gædsku geisla þessa, gafst oss til ad hressa, og bestur heillum blessa.

Sól hin sjáanliga, sínum allavega, geislum frá sér fleigir, frid á hværjum degi; øllu meir ad mæla, magnar gledi' yndæla, Sólin nádar sæla.

Þessa sól vér sjáum, í sannleiksordi, og fáum, il og byrtu blída, er burtu rýmir kvída. Þú ert, Jesú! þetta, þú, Guds ímynd rétta; miskun þinni' oss metta!

Il þinn oss lát kanna, og elsku kveikja sanna, en byrtu' á brautu leida, er bodar farsæld greida; aldrei vér svo villumst, í veröld, né mannspillumst, heldur þig adhyllumst.

Í ljósi lát oss gánga, lífsins veginn þángad, hvar sól mun aldrei setjast, né sál í bygdum letjast. Jesú, lífsins ljómi! líknadu' oss í dómi! hátt þín lofgjörd hljómi.

## Bænin.

Lof og dýrd sé þér, Fadir ljósanna! fyrir þad þú skapad hefir handa oss manneskjum tvöfalda ljóss-uppsprettu, nefniliga: þá náttúrligu sól á himninum, og nádarinnar sólu, í þínu heilaga ordi og sakramentunum. Bádar þessar sólir endurnæra og gledja, hvör med sitt slag, og þéna oss til bestu nota. Þó nú hin sýniliga sólin, sem upprennur yfir oss dagliga, sé ad vísu fögur, er þó hin þúsundsinnum yndisligri, Sól nádar og réttlætis, undir hvörra vængjum hjálprædid býr. Þessi sídarnefnda sól skín nú — og skein — fyrir oss í dag í ordi þínu, hvör ad uppfyllir sálir vorar himneskum il og byrtu, sem burturýmt getur frá oss öllum hjartans kvída. Þessi blessada sólin ert þú, herra Jesú! þú, sanna ímynd Guds veru og ljómi hans dýrdar! þinnar miskunar geislar séu vort sannasta yndi og eptirlæti! Lát il elsku þinnar til vor fylla hjörtu vor med elsku til þín aptur á móti, en ljóma þíns sannleiks leida oss á lífsins götu, svo vér aldrei útaf henni villumst, fyrir neinar heimsins ginníngar, heldur adhyllumst þig og áhaungum þér,

í trú og hlýdni stødugliga. Lát oss í ljósinu gánga, og stefna þá réttu leid á lífsins land, hvar aldrei verda umskipti ljóss né myrkurs, og kærleikurinn og dygdin standa í fullum blóma eylífliga. O, herra Jesú! þú líf og ljós mannanna! vertú oss nádugur, nær þú, íklæddur þínum dýrdar ljóma, kémur á sídarsta degi, med makt og miklu veldi, heiminn ad dæma! Dæm þá oss til handa eylífa sælu á himnum! Uppá þá von viljum vér øruggir lifa og deya! Pitt blessada nafn, ásamt þíns himneska Føðurs og heilags Anda, sé hátt lofad og vegsamad eylífliga! amen!

---

## 2ar Sálmur.

Lagid: Þøck sé þér, gódgjørd, Gud o. s. frv.

Dýrd sé þér, Drottinn! dag og nótt, án enda; sem lætur hér lýd þinn, líf og velferd henda; má því hver sjá sinn, sælu hag ad venda, til blessunar benda.

O, ad menn ad því, allir vildu gæta! og inna senn, á ný, elsku' og hlýdni mæta, Eining þrenn og frí! ástgjøf þinni sæta, bøl sem kann bæta.

Þér má þad þackast, þýdi Jesú! einum; í vorn stad er last, med allskyns písla greinum, þoldir ad þér fast, þjakadi synda hreinum, svo menn sviptir meinum.

Blæddi þín blóds lind, til blessunar á jørdu; þá mæddi þín mannkynd, af máli réttar hørdu; nád oss sýn, naud hrynd, nafn þitt sanna gjørdu! vor Lífsins Vørdur!

Géf oss dád, Gud vor! ad gánga í trúar standi;

hneigi' af náð, hvørt spor, til helgunar þinn Andi! veit oss ráð, þrek, þor, að þreyta frí af grandi, að lífsins landi!

Oss, þinn lýð, ætíð, uppfyll gæðum snauða; mýkist stríð, helshríð, hópnum þinna sauða; en um síð oss prýð, þá endað líf er nauða, dýrð eptir dauða!

## Bænin.

Óendanligt lof sé þér, miskunsemdanna Faðir! fyrir það þú verndar oss, þitt fólk, svo dásamliga, og lætur alla þá lukku oss í skaut falla, er oss henta má, og til beztu blessunar þéna, bæði í tíma og eylífð. Ó, að allir vildu þessa gá, og endurnýaðir í anda, inna þér, þú Guðdómsins heilaga þrenníng! elskufulla hlýðni, einsog vér þér í skírninni hétum! já, að allir vildu réttiliga taka ámóti þinni föðurligri náð, frambodinni í Evangélíó, sem alleina bæta kann úr öllu voru líkamligu og einkum andligu böli! En að vér eigum þessa kost, það megum vér sérdeilis þakka þér, góði Jesú! er, í vorn stað, sjálfur heilagur og syndlaus, gafst þig til til að líða allskonar píslir á sálu og líkama, svo þú gætir frelsað oss alla frá forþéntri syndasekt og straffi. Þínu blessaða blóði, sem hreinsar alla þá, sem á þig trúa, af öllum syndum, úthelltir þú, heiminum til lausnar, frá lögmálsins réttvísu bölvun, sem á öllu Adams kyni lá. Æ! sannaðu þá enn framar á oss nafn þitt! þú heitir Jesús, það er: Frelsari! frelsaðu oss frá öllu sannköllaðu illu, tímanliga og eylífliga! Gef oss náð, ó Herra! til að gánga í trúnni og hlýðninni, á öllum vorum vegum, alla vora æfidaga;

og auk oss krapta og þolinmæði til að stríða voru stríði, bera vora byrði, og þræða það rétta, þrøngva einstig, sem liggur að landi þeirra lifendu, í þínu dýrðar-riki. O, uppfyll oss, þitt fólk, sem af náttúrunni snauðir erum, þínum andligu náðargæðum, og lát dauðann, þegar hann aðkémur, verða oss, þínum sauðum, sáluhjálpligann, fyrir þinn dauða, svo vér, eptir þetta líf liðið, fáum með þér, og øllum þínum útvøldum, eylífa dýrð og sælu á himnum, amen!

---

## 3ji Sálmur.

Lagið: Himna rós, leið og ljós, líf o. s. frv.

Kóngur hár, eylíf ár, einn sem ríkir! Lof þitt rómi, lístugum hljómi, lønd øll! Engla her, innir þér, ærusálma; og sveitin øll, í sólar høll, með sigur pálma.

O hvað þá, ættum já, Adams niðjar, þér að hrósa, og þína glósa, þrí-dýrð! sem á kross, sviptir oss, sekt og pínu; en reistir frið, og réttlætið, í ríki þínu.

Hvør ein ønd, heims um lønd, hvør einn munnur, þakkir greiði, þét og heiður, þrí-einn! fyrir ráðfrelsis stráð, í friðar letri, og vonar hnoss, sem veittir oss, í verøld betri.

Sverjum eið, synda leið, og Satans snørur, um að flýa, og aldrei drýgja, illgjørð, með ásett ráð, en ydka dáð, í øllum hætti; veit oss stoð, að vel þín boð vinnast mætti!

Géf oss þinn, anda inn, í vor hjørtu, að hann glæði, elsku bæði, og eins dygð, sem líkar þér; að líf

um vér, sem lög þín bjóda; himnum á, hreppum þá, hærstan gróda.

Trúar stríd, heims um hríd, hjálpa' oss móti, féndum heya, og fyrri deya', enn frid ná! Synda grønd, svipti' af ønd, sefi naudir, Jesú tár, Jesú sár, Jesú daudi!

## Bænin.

O, þú eylífi og einasti Kóngur dýrdarinnar! lofi þig øll heimskrínglan med føgnudi! Þinna heiløgu engla hersveitir, og allir sigurhrósandi útvaldir lofa þig óaflátanliga! O, hvørsu bæri oss þá, Adams børnum, ad vegsama þig af øllu hjarta, og í trúnni taka undir englanna þri-heilagur! oss, hvørja þú, fyrir þinn Son Jesúm Krist, hefir, med hans blódugu pínu og dauda, frelsad frá syndarinnar sekt og straffi, en fyrir hans upprisu tildæmt oss eylíft réttlæti. Lofi þig þessvegna hvør ein endurleyst sál, og hvør einn munnur greidi þér, þríeini Gud! heidur og þakklæti, fyrir þad frelsi, sem þitt heilaga Evangélíum bodar, og fyrir von eylífrar sælu á himnum uppi! Nú viljum vér, ó Herra! vinna þann eid fyrir þínu augliti, ad vér framvegis heitum því, ad drýgja aldrei framar ásetníngs syndir móti þér, en fordast breiskleikans syndir, svo vel sem vér getum; en þar vér megnum alls eckért án þín, þá bidjum vér þig, ad þú veitir oss þína adstod, til ad halda særi vort trúliga. Já, gef oss þinn heilaga Anda, svo hann tendri í oss sannan kærleika til þín, og ástundun dygdafulls lífernis, svo vér hér á jørdu lifad getum eptir ordi þínu, og sídan

á himnum hluttakandi verdum eylífrar sælu. Ó! hjálpadú oss til ad heya trúliga orustu trúarinnar móti vorum andligu óvinum, holdi, heimi og djøfli, og ad vér látum fyrri lífid, enn ad vér semjum frid vid þá. Í einu ordi: frelsadú oss frá syndarinnar veldum og gjøldum, og lát oss njóta Jesú fyrirbæna, samt hans fridþægjandi pínu og dauda, í vorn stad! amen!

---

## 4di Sálmur.

Lagid: Gef þinni kristni gódan frid, o. s. frv.

Fadir vors herra, Frelsarans! Fadir vor allra í honum! leid þú oss alla heim til hans, hans vegna á þig vonum; ad þínum gjør oss óskasonum!

Kénn oss vort daga ad telja tal, svo tilhugsan sídsta blundar, oss gjøri vísa í eymþa-dal, ad bída dauda stundar, og hlacka til þíns feigins fundar.

Hvar helzt ad aldur ølum hér, á vorum lífsins vegi, felum oss þinni forsjón vér, ad fár eckért skada megi, hvørki á nótt eda nockrum degi.

Þegar vér høkum þig fyrir vin, og þú villt oss til þín lada, engin fjandmanna ásóknin, sem uppá oss kann ad vada, getur þá nockurn gjørt oss skada.

Komi þá daudans dymma stund, Drottinn! nær helzt þér lyndir; í fadmi Jesú ef festum blund, og fáum kvittar syndir, vakna munum vid eylíft yndi.

Lát þú oss njóta Lausnarans, er leitadi týndra

skilda; fyrir bænir og blód hans, benjar og dreiránn rauda, líknadu oss í líf' og dauda!

## Bænin.

O, þú Fadir Drottins vors Jesú Christi, og vor allra Fadir fyrir trúna á hann! þarsem þinn Sonur sagt hefir, ad enginn géti til sín komid, nema þú dragir hann, æ, svo hjálpadú oss þá, ad koma til þessa vors einasta hyrdirs og medalgángara! já, vér vonum þess til þinnar miskunar, fyrir hans sakir. ad þú munir gjøra oss alla ad þínum óskabørnum í hønum. Kénn oss fyrir þinn Anda, ad telja svo, medan lifum, vora daga, ad vér forsjálir verdum; og ad búa oss svo dagliga undir daudann, ad vér mættum, sem til eins fagnadardags, hlacka til ad mæta fyrir þínu augliti í dóminum! En ámedan vér framdrøgum líf vort hér í heimi, felum vér oss trúaróruggir þinni fødurligri forsjón, vissir um, ad engin sønn ólucka kann oss nockurntíma, hvørki á degi edur nóttu, mein ad vinna, svo lengi vér erum undir þinni vernd og varatekt, því þegar þú ert vor vinur, og villt oss ásjá veita, megna engir fjandmenn vorir, hvørki andligir né líkamligir, hvørsu mektugir og slægir sem vera kunna, oss nockurn skada ad gjøra. Já, falli þá hinn sídarsti óvinur vor, daudinn, yfir oss, þegar þér, lífsins og daudans Herra! svo þóknast, ef vér þá erum svo, fyrir trúna, undirbúnir, ad vér sofnad fáum hinum sídarsta svefni, í fadmi vors Jesú, af því fengid høfum fyrirgéfningu synda vorra hans vegna, munum vér, af vorum andláts dúr, vissuliga uppvakna til ey-

lífrar sælu á himnum. Æ, lát oss þessvegna, himneski Fadir! njóta þins Sonar Jesú medalgaungu, sem híngad kom til ad leita ad því, sem tapad var! Já, søkum allra hans bæna fyrir oss, samt hans bitru og blódugu pínu í vorn stad, vertú oss miskunsamur og nádugur, bædi í lífi, deyd og dómi! amen!

---

## 5ti Sálmur.

**Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú, o. s. frv.**

Þér sé, Gud! eylíf þackargjørd, þinn fyrir Son, er kom á jørd, frelsun og frid ad veita, gjørvøllum heim, og géfa þeim gott, sem því eptir leita.

Hefdi hann eckí híngad reist, og heiminn med sínum dauda leyst, útsnarast hefdu allir; þeir leidast nú, sem lifa' í trú, loksíns í dýrdar hallir.

Af þessu vér nú uppskérum, allt gott á degi sérhvørjum, á hvørju augnabliki, andliga nád, sem eflir dád, og annad þúsund-mikid.

Jesú, Guds Sonur! þøck sé þér, þú oss med dauda keyptir hér, lífs eylífs hnoss til handa, svo grundvallast þad gæti fast, gafst oss í pant þinn anda.

Lát hann oss jafnan leida því, lifandi trú og dygdum í, á sønnum sæluvegi; lángar oss þá, hans leidslu fá, lífgjøf svo tøpum eigi.

O, þú Andi Guds! innhell þér, í vorar sálir, bidjum vér, og uppfyll oss elsku gædum, til Frelsarans, og Fødur hans, svo fáum dýrd á hædum!

## Bænin.

Eylífar þackir séu þér, vor Gud og Fadir! fyrir þinn Son Jesúm Krist, sem þú sendir híngad á jörd-ina, til ad afreka öllu mannkyni eylífan frid og frelsi, samt allskonar andlig gædi hér í lífi, öllum þeim sem þeirra réttiliga leita. Hefdi ecki þinn Sonnr híngad komid, og endurleyst oss med sínum dauda, þá hefdu allar manneskjur eylífliga fortapast; en nú verda allir þeir, sem med lifandi trú á hann trúa, hluttakendur himneskrar sælu. Já, allareidu í þessu lífi uppskérum vér af hans endurlausn dagliga, á hvörju augnabliki, ótalföld nádargædi, bædi fyrir sálu og líkama, þar þú, fyrir hans sakir, géfur oss alla naudsynliga góda hluti, sem til andligs og líkamligs lífs henta. Sömuleidis þöckum vér þér, þú Sonur Guds, herra Jesú Christe! ad þú med þínum dauda vyrdtist ad kaupa oss eylíft líf til handa, og til þess sú heimild ei bregdast skyldi, hefir þú géfid oss þinn heilaga Anda, í pant þessarar himnesku arfleifdar. Æ lát hann þá jafnan leida oss á sönnum farsældar og dygda vegi! hvör vegur er sú einasta beina stefna ad eylífrar sælu landi. Vér girn-umst hjartanliga ad njóta þessarar leidslu þíns góda Anda, svo vér töpum ecki rétti til þess sælu lífs, er þú oss útvegad hefir. O, þú blessadi heilagi Andi! innhell þér sjálfur í sálir vorar, og uppfyll þær med elsku til Guds og vors Frelsara Jesú Krists, svo vér gétum verdugir ordid ad hreppa þá sælu vist á hæd-um uppi, sem Gud hefir oss frá upphafi veraldar fyr-irbúid! amen!

# 6ti Sálmur.

Lagid: O, minn Jesú! öll þín pína, o. s. frv.

Tímans straumur hradt fram hleypur, hafi' eylífdar stefnir ad; vegur lífsins víst er sleipur, veit ei nær enn dvínar þad; verdi, Drottinn! vilji þinn, vísdómsfullur hvört eitt sinn, á sálu vorri sem líkama, en sýn oss miskun nádar tama.

Viljir þú ad líf vort linni, hvörs þessa dagsins med, talid mildi þad sé þinni, þitt er hvad þú hefir séd; en undirbúnum unn oss vel ad vera, nær kémur hel, í sannri trú á Son þinn kjæra, sá oss gjördi lífid færa.

Géf þú oss þinn guddóms Anda, er glædi hjá oss von og trú, óhultir í öllum vanda, erum vér, nær lifir sú; komi daudans þruma þá, þetta líkams hróf ad slá; samt mun öndin svipt af kífi, sæla ná í betra lífi.

Bænheyr oss nú, blídi Fadir! bænheyr oss af elsku þín! bænheyrslunnar bidum gladir, þó bæn vor hafi lýti sín; best fyrir Jesú bænastad, bidjum samt ad gjörir þad; minnstu hans sálar miklu nauda, minnstu hans unda, blóds og dauda!

## Bænin.

O hvörsu ódfluga frambrunar tímans straumur í hið haf eylífdarinnar, svo enginn veit nær enn hans lífdaga reisa er á enda kljád; og þaradofan er vegurinn, sem yfir skal fara, háll og sleipur, svo í hvörju

spori, ef þú vill, er vid banafalli búid. En verdi, Drottinn Gud! þinn vilji, sem vísdómsfullur er og gódur, á oss, bædi í tilliti líkama og sálar! ad eins, láttú oss njóta miskunar þinnar bædi í lífi og dauda. Viljir þú, Drottinn! ad líf vort endi med degi þessum, verdi þá sem þú villt! þú átt frjálst ad taka þad aptur, þegar þú villt, sem þú lánad hefir; ad eins bidjum vér þig, ad þú géfir oss nád til ad vera vel undirbúnum nær sem daudinn adkemur; já, undirbúnum á þann hátt, ad vér fullir séum af elsku til þíns Sonar Jesú, og af lifandi trú á hann, sem géfid hefir oss rétt til eylífs lífs; þó undir skilmála ydrunar, trúar og lífernisbetrunar. Æ, géf oss þinn heilaga Anda, til þess ad hann kveiki í oss sanna trú, því ef hún med sínu fulla lífi býr í oss, megum vér fyrir öllu sálartjóni óhultir vera; já, komi þá, nær vill, daudans þrumuslag yfir oss, og brjóti nidur þessa vora sálar tjaldbúd; engu ad sídur mun þó sálunni óhætt verda, og hún, líkasem á trúarinnar og vonarinnar vængjum, fljúga út af líkamans rústum inní Abrahams skaut. Bænheyr oss um þetta, blessadi Fadir! og lát þína elsku til sálna vorra hræra þig til þess! vér þreyum vongladir eptir þinni bænheyrslu; og þó vorar bænir séu í sjálfum sér daufar og ófullkomnar, samt treystum vér því, ad þú látir oss njóta fyrirbæna vors Medalgángara Jesú. Já, minnstú þess, Fadir! hvílíka sálar ángist hann vor vegna leid, og hversu hann, med allri sinni pínu og dauda, yfirhöfud, samdi frid millum vor og

þín, og þín og vor! Bænheyr oss því fyrir hans sakir! Amen!

---

## 7undi Sálmur.

Lagid: Sjá hvad dagurinn ferd nú flýtir, o. s. frv.

Eylífi Gud! þín ár ei þrotna, aldrei þrotnar þín dýrd og nád; en holdsins mun loksins ihreysi brotna, himin forgánga og jardarlád; sálin af tjóni samt er frí, sé hún hønd þinnar nádar í.

Þín nád, ó Gud! er þúsund betri, enn þetta líf, hvørsu vænt sem er, leidir hún oss ad lífsins setri, lífs þess, hvørs gledi aldrei þver; unn oss því hennar umfram líf, ecki þá skadar daudans kíf.

Sonur þinn Jesús samdi fridinn, vid sjálfan þig, Fadir! vorn í stad; blessun oss færdi lífs og lidinn, og lifnadur sídan eptir þad; en daudinn í sigur svelgdur er, þess sigurs í dauda njótum vér.

Upprisu vorri eptir hlacka, allir megum, ef deyum vel; Jesú! vér eigum þad ad þacka, þér, sem afmádir synd og hel; sjálfur þegar ad dauda dóst, daudanum helfør sanna bjóst.

Daudans skál megum drecka gladir, ef deyum í þinni elsku' og trú, líf oss þá gefur Lífsins Fadir, lífs í borg, þeirri' ei sjáum nú, uppvøknudum til yndis hags, ad morgni dýrdar Sabbats dags.

### Bænin.

O, þú eylífi og óumbreytanligi Gud! þín ár

sporí, ef vill, er vid banafalli búid. En verdi, Drottinn Gud! þinn vilji, sem vísdómsfullur er og gódur, á oss, bædi í tilliti líkama og sálar! ad eins, láttu oss njóta miskunnar þinnar bædi í lífi og dauda. Viljir þú, Drottinn! ad líf vort endi med degi þessum, verdi þá sem þú villt! þú átt frjálst ad taka þad aptur, þegar þú villt, sem þú lánad hefir; ad eins bidjum vér þig, ad þú gefir oss nád til ad vera vel undirbúnum nær sem daudinn adkemur; já, undirbúnum á þann hátt, ad vér fullir séum af elsku til þíns Sonar Jesú, og af lifandi trú á hann, sem gefid hefir oss rétt til eylífs lífs; þó undir skilmála ydrunar, trúar og lífernisbetrunar. Ó, gef oss þinn heilaga Anda, til þess ad hann kveiki í oss sanna trú, því ef hún med sínu fulla lífi býr í oss, megum vér fyrir öllu sálartjóni óhultir vera; já, komi þá, nær vill, daudans þrumuslag yfir oss, og brjóti nidur þessa vora sálar tjaldbúd; engu ad sídur mun þó sálunni óhætt verda, og hún, líkasem á trúarinnar og vonarinnar vængjum, fljúga út af líkamans rústum inní Abrahams skaut. Bænheyr oss um þetta, blessadi Fadir! og lát þína elsku til sálna vorra hræra þig til þess! vér þreyum vongladir eptir þinni bænheyrslu; og þó vorar bænir séu í sjálfum sér daufar og ófullkomnar, samt treystum vér því, ad þú látir oss njóta fyrirbæna vors Medalgángara Jesú. Já, minnstu þess, Fadir! hvílíka sálar ángist hann vor vegna leid, og hvørsu hann, med allri sinni pínu og dauda, yfirhøfud, samdi frid millum vor og

þín, og þín og vor! Bænheyr oss því fyrir hans sakir! Amen!

---

## 7undi Sálmur.

Lagid: Sjá hvad dagurinn ferd nú flýtir, o. s. frv.

Eylísi Gud! þín ár ei þrotna, aldrei þrotnar þín dýrd og nád; en holdsins mun lokssins ihreysi brotna, himin forgánga og jardarlád; sálin af tjóni samt er frí, sé hún hønd þinnar nádar í.

Þín nád, ó Gud! er þúsund betri, enn þetta líf, hvørsu vænt sem er, leidir hún oss ad lífsins setri, lífs þess, hvørs gledi aldrei þver; unn oss því hennar umfram líf, ecki þá skadar daudans kíf.

Sonur þinn Jesús sambi fridinn, vid sjálfan þig, Fadir! vorn í stad; blessun oss færdi lífs og lidinn, og lifnadur sídan eptir þad; en daudinn í sigur svelgdur er, þess sigurs í dauda njótum vér.

Upprisu vorri eptir hlacka, allir megum, ef deyum vel; Jesú! vér eigum þad ad þacka, þér, sem afmádir synd og hel; sjálfur þegar ad dauda dóst, daudanum helfør sanna bjóst.

Daudans skál megum drecka gladir, ef deyum í þinni elsku' og trú, líf oss þá gefur Lífsins Fadir, lífs í borg, þeirri' ei sjáum nú, uppvøknudum til yndis hags, ad morgni dýrdar Sabbats dags.

### Bænin.

O, þú eylísi og óumbreytanligi Gud! þín ár

þrotna aldrei, og þín dýrd og miskun varir frá eylífd til eylífdar, en allt annad umbreytist og forgeingur; ei alleinasta þessi vor jardnesski líkami, heldur og einnig sú stóra bygging himins og jardar. En engu ad sídur, þó himin og jørd forgángi, er sálu vorri samt óhætt, fái hún í þínum miskunar høndum hæli ad hafa. Þessvegna er þín nád, ó Gud! þúsundsinnum betri enn líf þetta, og eins, þó þad aldrei svo farsælt ordid gæti, því þad hlýtur þó, þegar minnst varir, ad linna, en hún færir oss loksins inní þá bústadi, hvar farsæld og føgnudur mun aldrei ad eylífu enda taka. Ó! unn oss því ad njóta nádar þinnar, framar enn þessa stundliga lífs, því þó vér missum þad, ef vér beholdum henni, getur daudinn aldrei gjørt oss neinn skada, heldur verdur hann oss ad hinum mesta ábata. Þetta flýtur allt af því, ad þinn eingetni Sonur Jesús, sambi frid vid þig í vorn stad, en afrekadi med lífi sínu, samt dauda og upprisu, blessun þá, sem eylífliga varir. Nú er daudinn, med hans dauda, í sigur svelgdur, hvørs sigurs vér, nær deya skulum, getum adnotid móti vorum dauda. Ó, hvørsu megum vér þá hlacka til vors upprisudags, ef vér deyum vel, þad er: í trúnni á þig, ó herra Jesú! því þad eigum vér þér einúngis ad þacka, ad vér høfum þessa fullvissu, þar ed þú lifandi og deyandi afmádir synd og dauda, og líkasem veittir hønum ólæknanda banasár, med þínum allraheilagasta dauda. Svo megum vér þá, blessadi ~~Fadir~~! Frelsari gladir og fagnandi afdrecka daudans skál, nær hún oss ad høndum berst, ef vér deyum fullir af elsku til þín og trú á þig; því þá

mun þinn himneski Fadir vissuliga gefa oss eylíft líf, í þeirri nýu Jerúsalem, sem þar uppi er; þo hún enn nú hulin sé fyrir vorum augum. Já! vér munum á þeim sídasta degi, ad morgni þess eylífa dýrdarinnar Sabbats, af þér uppvaktir, úr býtum bera óvisnanliga dýrdarinnar kórónu, ásamt öllum þeim, sem allt til daudans stridt hafa gódu stridi trúarinnar, fyrir krapt þinnar forþénustu! amen!

---

# Annar Flockur:

## Sálmar og Bænir útaf Fadir vor.

---

### 1ti Sálmur.

Lagid: Skaparinn, stjarna herra o. s. frv.; edur annad himnalag. Allir sálmarnir eru med sama lagi.

Einasti Fadir!' ædsti Gud! eylífa veran hærst tignud, allstadar nálæg öllum lýd, á himni og jördu, fyrr og síd!

Vegsamist nádar nafn þitt hér, nær og fjær eins og kristnum ber! unn oss þér hlýdni tryggva tjá, treysta þér best og vona uppá!

Ríkisstjórn nádar þinnar þýd, þínum vidhaldi kristnum lýd, ecki svo tapist einn af þeim; er þig medkénna hér um heim!

Verdi þinn nádar vilji á oss, vér svo ad dýrdar

hreppum hnoss! vilja þíns fúsir verkum bod, veit oss þar til þíns anda stod.

Sjálfur gafstú oss sál og líf, svo er hvorttveggja í þinni hlíf; forsorgun legdu, Fadir kjær! fyrir oss, medan lifum vær!

Mjøg er vor synda sektin stór, sýn þú oss miskun, Fadir vor! fúsir því viljum vægja þeim, vid oss misgjøra hér í heim.

Forløgum vorum veldr þú; vísdómur þinn oss typtar nú, freisting ofþúngri frá oss vend, fyrir þinn anda hjálp oss send!

O þú, sem hefir audsýnt oss, elsku fyrir þíns Sonar kross, øllu frelsadu' oss illu frá, eylífri veit oss sælu' ad ná!

Bænheyr oss, Drottinn dýrdar-hár! drottnan þíns ríkis jafnan stár, almættis kraptur þinn ei þver, þúsundføld dýrd þér tilheyrir!

## Bænin.

O þú einasti, ædsti, eylífi, allstadar nálægi, almáttugi, heilagi, réttláti og miskunsami Gud og Fadir! verdi þitt nafn, sem nádina bodar, vegsamad í øllum stødum; géf oss med hlýdni, elsku og trausti, ad veita því þá sønnu heidrun og helgun! Lát þína nádarríkisstjórn vidhalda kristindóminum og efla hann, og veit, ad enginn þeirra fortapist, sem medkénna þig og þann þú sendir, Jesúm Krist! Verdi miskunar vilji þinn á oss, ad vér á sannrar ydrunar, trúar og lifernis-betrunar-vegi komumst til eylífs lífs; já, lát þinn vilja vera vorn vilja, og géf oss þinn anda til

þess, ad vér í þessu getum breytt eptir heilögum englum á himnum! Þú hefir gefid oss líf og sálu, og hvorutveggja er í þinni hendi, veit oss þá forsorgun svovel fyrir líkamann sem sálina, medan þú ætlar oss aldur ad ala í þessum heimi! Æ vér játum vorar miklu og mörgu syndir móti þér, fyrirgef oss þær allar, fyrir þíns Sonar skuld, og vertú oss miskunsamur; vér viljum fúsir sýna ávöxt af nád þinni, med ad elska vora sámbrædur, og fyrirgefa þeim, sem oss ámóti brjóta! Öll vor forlög eru í þinni hendi; og þad sambýdur þinni elsku og vísdómi, ad aga oss og typta, sem Fadir börn sín; en legg þó ei á oss meira enn borid getum, og gef öllum vorum freistingum gódan enda! O þú, sem med þíns Sonar krossins dauda, lagdir grundvöll til vorrar eylífu farsældar, frelsadu oss Drottinn! frá öllu því, sem hindrad getur oss frá ad njóta þíns Sonar endurlausnar, og unn oss ad ná eylífri sælu, fyrir hans sakir! Bænheyr oss, Drottinn dýrdarinnar! hvörs ríki ad eylíft er, bænheyr oss, því þad er almætti þinu audveldt, en dýrd þinni verdugt! amen!

---

## 2ar Sálmur.

Heilagi Fadir himneski! hátignar Kóngur máttugi! þú sem ert, varst og verdur einn, veldi þitt skilur ecki neinn.

Heidrist þitt dýrdar dásamt nafn, Drottinn! þér

finnst ei nockur jafn; sannleikans ord þitt sé oss kjært, þad med andakt gétum lært.

Láttu þín mildu ríkis ráð, réttkristnum veita hjálp og náð! trúarinnar svo løgmál ljóst, ladi til kjærleiks manna brjóst!

O ad svo fúsir vinnum vér, vilja þinn, Gud! á jørdu hér; einsog þín engla heiløg hyrd, hvør þér án afláts sýngr dýrd.

Dagligt oss géfdu, Drottinn! braud, dugir oss nóg, ef sviptumst naud, fátækt og ríkdóm frá oss snú, forsjón þinni vér treystum nú!

Misgjørdir vorar medkénnum, mót þínum brýgdar bodordum, géf oss þær kvittar, Gud! af náð, glæpugum sýndu líknar ráð!

Líf vort hér reiknast reynslustand, rekjum vér braut á føburland, greid þú oss veginn, géf oss styrk, gégnum freistíng, þó leid sé myrk!

Mikid þó høfum módgad þig, miskun þín vid oss byrti sig; frá syndavaldi, sekt og pín, sídarst oss frelsi nádin þín!

Heyr þú, vor Kóngur! þegna þín, hvíad þíns ríkis tign ei dvín! orka þinn nádar máttur má, ad magnist þín dýrdin oss í hjá!

# Bænin.

O þú allra heilagasti, himneski Fadir! þú almáttugi himins og jardar Kóngur! þú, sem varst, ert og verdur hinn sami frá eylífd til eylífdar, og hvørs veldi og tign yfirgeingur allan engla og manna skilníng! O Drottinn! þú, hvørjum enginn jafn er, heidrist og þitt guddómliga nafn og náð af øllum

túngum, engla og manna; en einkum géf ad þitt guð-dómliga orð, sem úthrópar þitt nafn, þitt réttlæti og miskun, fyrir oss manneskjum, verði oss svo kjært, ad vér rækjum það með andakt, og hlýðum því með trú-lyndi! Láttu þitt náðarríki, hvørt þinn Sonur stift-að hefir, verða øllum kristnum, — já, øllu Adams kyni — til blessunar, svo, að løgmál trúarinnar á þinn Son Jesúm, fylli hjørtun með kærleika, með von og með støðuglyndi! O ad vér manneskjur vær-um svo fúsir á ad laga oss eptir þínum vilja, í øllum hlutum, sem þínir heiløgu englar eru það á himnum, hvørjir ad eru þjónustusamir andar, miðt í því þeir løfa þig og vegsama afláttanliga! Géf oss, Drottinn! dagligt brauð til nauðsynligs uppheldis, en hvørki fá-tækt né auðæfi, oss nægir ef vér enga stóra nauð líð-um, því vér vitum að þín føðurliga forsjón vakir yf-ir oss! Vér játum, ó Drottinn! vorar óteljandi synd-ir móti þér; æ géf, géf oss þær í Jesú nafni kvittar, af þinni føðurligu mildi, og vægðu oss, þó vondir ver-ið høfum, þegar þú finnur betrun vora einlæga, sem í kærleikanum er reiðubúin ávøxt að færa! Þetta vort líf er reynslu skóli, og á veginum til Føðurlands-sins mæta oss, það veitstú, margar torfærur, sem vér eigum ørðugt yfir að komast; æ, greið fætur vora úr freistínganna snørum á friðarins veg, og vertú, fyrir þinn anda, vort ljós í myrkrunum, vor styrkur í stríðinu og vort fasta slót fyrir óvinanna árásum! Æ lát oss ei gjalda þess, þó vér høfum svo mikiliga móðgað þig; misk-unna oss samt, ó Drottinn! og frelsaðu oss frá synd-arinnar yfirdrottnun í lífinu, en frá hennar straffi

eptir daudann! Heyr oss, vor Gud og Kóngur! þína vesælu undirsáta, svo vér ecki verdum þér til vanæru í ríki þínu; nádarkrapti þínum er hægt ad gjøra þad ad verkum, ad vér verdum til dýrdar nád þinni tímanliga og eylífliga! amen!

---

## 3ji Sálmur.

Himneski Fadir, Fadir vor! Fadir ad nád og miskun stór! Fadir, sem ædstu frelsun tér! Fadir um tíma' og eylífder! nafn er

Herra! þitt ~~ríki~~ heilagt még, háleitt, dásamt á allan veg, inni þér vegsemd, ást, lofgjørd, englar, manneskjur, himnar, jørd!

Ríkissprota þinn rétt þú oss, reidubúnum med trúar koss, ad sverja oss undir sáttmálann, er Sonur þinn, Jesús, skipta vann.

O ad verøldin vildi øll, vilja þíns rækja bodord snjøll, eins og þinn tignar engla her, alla sem hlýdni veitir þér!

Sed vora naudþurft sérhvørn dag, svoddan er hollast gæfulag, ánægt ef hjarta høfum med, og hugsýkin ecki plágar ged!

Fyrir þíns Sonar dýran deyd, Drottinn! oss syndakvittun greid; forláta viljum aptur eins, ødrum sem ad oss valda meins.

Mæta freistingar megnar tídt, má sér vor dugur harla lítt; býttu oss krapti ad berjast vel, bugad svo fáum synd og hel!

Þó ad hér Ödum þraut í bland, þad útkrefur vort reynslustand, loksins frá allri lastapín, leysi oss blessud nádin þín!

Bidjum vér, Herra! bænheyr þú, blómgist þitt ríki æ og nú, endalaus máttur er þér hjá, ad eylífu mun þín dýrdin stá!

## Bænin.

O þú himneski Fadir! Fadir vor allra í Christó Jesú, hvors nád og mildi er eins stór og þú siálfur ert! þú sem hefir oss í þínum Syni fødurligustu miskun sýnt, svo þú verda mættir vor forlíktur Fadir um tíma og eylífd! O hvørsu heilagt, háleitt og dásamligt er þitt nafn á allan hátt! ó ad gjørvallar þínar skepnur á himni og jørdu, svo vel manneskjur sem englar, vildu heidra þig og elska, treysta þér og hlýda, allra lofs- og elsku-verdasta Vera! Vertú oss, Drottinn! undirsátum ríkis þíns hér á jørdu, nábugur, og vottadu nád þína á andligann hátt vid oss, ad þú, líkasem réttir ad sálum vorum, fyrir þinn anda, þinnat nádar veldissprota í Evangélió; vér viljum med trúarfullri tilbeidslu á hann kyssa og sverja þér ad nýu heilagann hollustu eid, til ad lifa, lída og deya, eptir þeim sáttmála, er Sonur þinn Jesús samid hefir millum þín og vor. O ad allir heimsins innbyggendur mættu sem fyrst fá ad þeckja þinn nádarvilja, og vildu sídan trúliga hlýda hønum og fylgja, breytandi í því, eptir þínum heiløgu englum, sem án afláts hlýda þér, heidra þig og vegsama. En þar vér Adams børn berum eptir oss brothættann líkama, sem

sins uppheldis þarf vid, medan hann vera skal sálar=innar bústadur, ó svo géf oss þá þad sem þarf til ad sedja dagliga naudþurft vora, og lát oss vera ánægda med þad, sem þú úthlutar oss, og ecki med hugsýki ala önn annars morguns. Æ vér erum syndugar sképn=ur, Drottinn Gud! og höfum med óhlýdni vorri, unn=id til stórrar refsíngar af þér, æ! fyrirgéfdú oss nú, vegna þíns Sonar Jesú pínu og dauda allar vorar syndir móti þér! vér viljum sýna vora þakklátsemi aptur á móti, med hlýdninni vid þig, en einkum med því ad fyrirgéfa af hjarta öllum þeim, sem oss rángt tilgjöra! En vér erum, Herra! hér í heimi ótal freist=íngum umkríngdir, sem sumar locka oss, sumar hræda til ad rjúfa heit vor vid þig; æ! géfdu oss krapta til ad verjast þeim dyggiliga, svo ad syndin, hvörrar verd=laun daudinn er, verdi af oss, fyrir trúna, yfirunnin. Nú þó vér, hér í lífi reyna hljótum þessar og adrar þrengíngar, til ad æfa trú vora og hlýdni, unn oss þó loksins, af nád þinni, frá þeim, og öllu sann=kölludu illu farsælliga ad frelsast, fyrir sáluhjálpligann dauda! Heyr þessar vorar audmjúku bænir, og lát þitt nádarríki blómgast hér á jördu í oss, og oss í því; þar til brestur þig hvörki mátt né vilja, og þad sama mun verda þér til dýrdar og lofs eylífliga! amen!

---

## 4di Sálmurr.

Allsherjar Gud og Herra hár! himneski Fadir!

dýrdar klár, ástverk sem hefir ótal gjørd, uppfyllir bædi himin og jørd!

Tignist þín speki, dýrd og dád, dásemdar nafn og líknar-rád; lúkist þér einum løfgjørd skær, lotning, tilbeidsla, hlýdni kjær!

Láttú þíns ríkis løgin mild, laga vort hjarta' ad þinni vild, svo brjótum ei af oss blessun þá, blíd sem þín gædska vill oss tjá.

Láttú þinn vilja verda' á jørd, vikni til mýktar hjørtun hørd! englánna sinni í oss ræt; engla svo hreppum kjørin mæt!

Herra í dag oss braudi být, blessan þín er oss víst einhlýt; hvad sem á morgun skyldi ské, skal þinni falid trúfesti!

Uppgéf oss vora synda sekt, sem í himininn gnæfir frekt; ydrar oss nú af innstu rót, athæfis viljum sýna bót!

Þóknist þér, Herra! ad hyrta oss, hjálpa þá til ad bera kross; fell oss ei þýngri freisting á, enn forsjón þín sér oss stadist fá.

Afbidjum ei þitt ástar hrís, undir typtun því nád er vís; en øllu réttnefndu illu frá, oss frelsi, Gud! þín tignin há!

Heyr, Fadir! vora blída bón, blíúgir vér mænum á þinn tróu; ríkid og máttur þver ei þinn, þín er um eylífd vegsemdin.

## Bænin.

Allsvaldandi Gud og Herra! þú dýrdarinnar eylífi Fadir! sem uppfyllir bædi himin og jørd, og sem

á óátalfaldann hátt audsýnt hefir á oss þinn födurligann kjærleika, á líkamliga og andliga vísu! Verdi þitt guddóms-nafn, þín heilaga vera og eiginligleikar, einkum þín miskunsemi í Christó, háleitliga lofud og vegsømud. Þú alleinn ert alls lofs, allrar tilbeidslu, og allrar elsku og hlýdnis af oss makligur! O láttu løgmál þíns nádarríkis laga vor hjørtu til trúar og kjærleika, eptir sem þér þóknast, svo vér ecki førum á mis vid blessun þá, sem þú í þínum Syni Jesú Christó, af nád þinni tilreidt hefir! Láttu þinn heil. vilja ské hér á jørdu, sem er sá: ad syndararnir umvendist frá myrkrunum til ljóssins, frá Satans valdi til þín. Innræt oss likt sinnislag, sem þínir heiløgu englar hafa, í því falid: ad elska þig og lofa, hlýda þér og þjóna af einlægu hjarta, svo vér hluttakandi verdum sømu kjara og þeir, þegar þetta líf er á enda kljád, í þínu dýrdar ríki! Géf oss í dag og hvørn dag vort líkamligt uppheldi og být oss þinni fódurligri blessun; hún einsømul nægir oss í øllum tilfellum! Vér kvídum því ecki morgundeginum, heldur felum vongódir þinni guddómligri trúfesti øll vor eptirkomandi lífsins kjør til beztu umsorgunar! O! þú miskunsami, gódi Fadir! fyrirgéf oss í Jesú nafni vorar mørgu og þúngu syndir, sem vér framid høfum leynt og ljóst, móti þínum heiløgu bodordum; géf oss ad gjøra sanna ydrun fyrir þær, og færa sídan ávøxt af þeirri ydrun í betrun lifnadarins, med kjærleika, sáttfýsi og ødrum kristiligum dygdum! En vilþir þú, Herra! typta oss med nockrum krossi, æ hjálpadu oss þá til ad bera hann réttiliga; og láttu engar freist-

íngar, hvorki frá þér né ødrum, verda þýngri enn svo ad vér fáum undir þeim risid, og þær yfirunnid! Vér afbidjum allsecki þínar føburligu typtanir, þvi þær eru oss ómissandi, og hvørn þann son, sem þú elskar, þann agar þú; en frelsadú oss frá øllu því, sem í sannleika kann illt ad kallast, sem helst er syndin med øllum hennar banvænu afleidingum; æ frelsadú oss frá henni, þá erum vér fullfrelsadir! Bænheyr oss, ó Fadir! hér um, sem nú, audmjúkir líka sem krjúpum fyrir þínum tróni, med voru bænakvaki! Lát þitt ríki og mátt, sem enganu enda tekur, auglýsa sig á þennan hátt vor á medal; þá skulum vér vidfrægja dýrd þína og lofgjørd medal allra þinna útvaldra eylífliga! amen!

---

## 5ti Sálmur.

Mildasti Fadir mannakyns, minnumst vér gladir nafnsins þíns, þú hvør á himnum hefir ráð, heiminum sýnir stærstu nád.

Miklist þitt nafn á medal vor, miskunsemd þín og gædska stór, haldist þitt ord í heidri best, hlýdni trúar því audsýnist!

Vøndur þíns nádar veldis klár, verji þinn kóngstól síd og ár, fyrir óvina hættum her, hér sem þitt ríkid ásækir!

Vilji þinn dempi vilja vorn, vér sem þín gjørumst hlýdin børn; eins í mótgáng og medlæti, møglunarlaus vor hlýdni sé!

Afinnar medan stundum skeid, Skapari trúr oss fædslu greid, til sadningar en ei sællifes, svo vér dagliga njótum þess!

Ydrun vora þú sjálfur sér, syndakvittunar leitum vér, vegna þíns Sonar dreyra og deyds, Drottinn! minnstu þíns nádareids!

Vondra freistínga vékum gégn, veit þú oss, Gud! ad strída megn, svo ad vér fáum sigri nád, sídan prísum þitt hjálparrád!

Gyrndir holdsins oss ginna még, og gjálífid heims á margan veg; frá þessu illu oss frelsa þú, fyrir þíns Sonar dýra trú!

Bænheyrslu, Drottinn! væntum vér, veldi þitt svo útbreidist hér, þinn nádarmáttur megnar þad, mjøg sé þitt nafnid vegsamad!

## Bænin.

O þú miskunsami Fadir allra Adams barna undir sólu! gladir minnumst vér þíns Fødurnafns, þvi þad sýnir hvørs mannesskjurnar mega af þér vænta, þess néfniliga: ad þó þú sért kóngur himnanna himna, viljir þú þó nádarsamliga líta nidur til vor, aumra jardarmadka, ef vér ad eins, sem gód børn, leitum miskunar þinnar réttiliga! O ad þitt nafn og nád, hvør ad er svo óendanliga stór, vegsamadist verdugliga vor á medal, og ad þitt heilaga ord, sem inniheldur bædi þín réttlætis og nádarløg, til vor þinna undirsáta, verdi trúliga rækt og því sannarlig hlýdni sýnd, útaf trúnni á þitt nafn! Láttú þíns nádarveldis vønd og staf halda þinni andligu kóngstign vid makt í heim-

inum og setja þínum óvinum skordur, sem þíns náð=arríkis blómgun og blessun hindra vilja! O ad þinn vilji, sem fullkomliga heilagur og réttlátur er, undirleggi sér vorn vilja, svo vér gjørumst þínir hlýdnisfúsir undirsátar og børn, já, ad vér, svovel í medlæti sem mótlæti, tøkum viljugir uppá oss þitt hlýdnis ok, og møglum hvørki undan þínum bodordum né typtunum! Á medan vér hrekjumst hér á jørdu, á vorri vegferdarreisu til eylífdarinnar, géf oss fyrir líkama vorn naudsynligan reisukost, ad eins svomikinn, sem nægir til ad vidhalda lífi vòru, en ecki til ad freista vor til sællífis og óhófs, því ella' yrdi þad oss til skada, sem annars ad notum verda mætti fyrir líkama og sálu! Vér erum syndarar fyrir þér, ó Drottinn! en hvørt vér erum sannydrandi syndarar, þad veitstu sjálfur bezt; en allir þeir af oss, sem sanna ydrun gjørum, leitum hjá þér fyrigéfningar á misgjørdum vorum, já vér leitum hennar í nafni þíns Sonar Jesú Krists, sem fyrir oss pýndist og dó, svo þú mættir oss miskunsamur vera, og ad þinn nádar eidstafur mætti á oss rætast, sem svarid hefir, ad þú ei viljir syndugs manns dauda, heldur ad hann snúi sér, og lifi! En af því vér, ó Gud! eigum hér í strídi ad standa móti mektugum óvinum, sem leitast vid ad fella oss í syndir og lesti, þá hjálpadú oss, fyrir þinn heilaga Anda, móti þeim ad strída, svo vér ad lyktum sigurinn fáum, og þér eylífliga sigrihrósandi fyrir hann þøckum! Þú veitst hvørjir vorra óvina skjædastir eru, nefniliga: vort eigid hold og blód, med sínum girndum og heimurinn med sínum glaumi og ginníngum;

ur frelsadu oss þá, Drottinn! frá þessum hinum sömu, fyrir trúna á þinn Son, hvör freistádur var á allan hátt, sem vér, þó án syndar! Vér gjörum oss góda von um þína födurliga bænheyrslu, því hún þénar til ad auka nádarríki þitt og veldi hér á jördu; svo máttur þíns kærleika mun auglýsa sig á oss, þinu gudsdómliga nafni til lofs og dýrdar eylífliga! amen!

---

## 6ti Sálmur.

Alheima Kóngur alvaldi! algædsku Fadir trúfasti! Þú sem einn rædur himnahöll, heimsins bygging þig prísar öll!

Lönd öll fyllist af lofi þín, leggi þar sitt til öndin mín, géf oss þín kénníng gagni blíd, gjör oss þér hlýdna lífs um tíd!

Géf ad þegnskyldu greidum þá, gódfúsir, sem oss ber ad tjá, Hátign þinni, vor Kóngur klár! kóngsríki þitt um eylífd stár!

Vilji þinn er vor helgan hrein, hann á oss verdi í hvörri grein, viljandi svo ei vinnum synd; veit oss ad bera þína mynd.

Drottinn! géf oss vorn deilda verd, dagliga er þurfum hér á jörd; búksorg lát þú ei bleckja oss, besta géf rækjum sælu hnoss!

Í himninn syndgad höfum vér, heilagi Kóngur! fyrir þér; taktú oss aptur samt í sátt, til sannrar ydrunar géf oss mátt!

Vísdóm og krapta veit oss hér, vidsjáll því bædi

og máttkur er, óvinur sá oss svíkja vill, syndanna sýsn og veröld ill!

Ollu frá, sem ad andartjón, oss verkad getur, heyr þá bón! frelsadú oss, ástar Fadir trúr! farsælann gef oss andlátsdúr!

Heyr, Fadir! vora hjartans raust, hátt er þitt veldi' og endalaust, mátt þinum enginn móti stár; miklist þín dýrd um eylíf ár!

# Bænin.

O þú himins og jardar alvaldi Gud og Kóngur, þú algódi og eylífi, trúfasti hjartans Fadir! þú, sem alleinn ræður öllum heiminum, og hvörn ad öll þín handaverk, á himni og jördu, lofa og vegsama! O ad þitt nafn kunnugt yrdi öllum heimsins innbyggjurum, svo allra þjóda túngur mættu lofa þig! O hvörsu fúsir viljum vér fylla þann flock, sem lofar þitt nafn, og tilbidur þig! Lát kénníngu þinna heilögu orda færa hjá oss og ödrum gódan ávöxt, og verka med oss lifandi trú, velgrundada von, og hreinann kjærleika! Géf oss jafnan ad minnast þess, ad vér erum þínir undirsátar, þú hátignarfulli Konúngur þeirra heilögu! og ad oss ber ad greida þegnskyldu vora gódfúsliga, því þar undir er blómgan þíns nádarríkis hér á jördu komin, og fjöldi þíns dýrdaríkis hluttakenda á himnum! Þinn heilagi vilji, sem er vor helgan eptir lögmálinu og evangelíó, ó ad hann mætti svovel hjá oss sem á oss verda, í öllum hlutum! Lát oss aldrei viljandi, edur af ásettu, syndir drýgja, heldur ástunda ad líkjast þínum heilögu engl-

um í hlýdninni vid þig, svo þín mynd, hverja vér í Adams falli mistum, mætti endurnýjast i anda vors hugskots, og vér svo gánga fyrir þér í heilagleika og réttlæti! O Drottinn! géf oss dagliga vorn deildan verd, medan lifa skulum hér á jordunni; en vardveit oss frá ágirnd og búksorg, svo þessir skaplestir blindi oss ecki til eylifs dauda; heldur ad vér trúliga fylgja mættum þeirri blessudu lífsreglu: ad leita fyrst Guds rikis og hans réttlætis, vissrar vonar, ad oss muni þá allt annad líkamligt, eptir þorfum, tilleggjast. Himneski Gud og Fadir! vér hofum syndgad, já þúngliga syndgad fyrir þínu augliti; æ vegna þins kærleika til vor í þínum Syni Jesú Christó, fyrirgéf oss vorar syndir, og tak oss aptur í sátt vid þig! Géf oss ad géta gjort sanna ydrun fyrir syndir vorar, med lifandi trú á þíns Sonar forþénustu; lát sídan ydruninni fylgja aflát vondra athafna, en trúnni ástundun gódra verka í kjærleikanum til þín og vors náúnga! En þarsem vér hér í heimi umsetnir erum af vorum sálaróvinum, sem bædi erú margir og vidsjálir, nefniliga: Djofullinn med her sinna freistinga, heimurinn med grúa sinna hneixlana, og holdid med fjolda vondra girnda, géf oss því, Fadir! vísdóm, vilja og megn móti þessum óaldarflocki ad berjast, og unn oss loksins sigurinn ad hreppa! Já, yfirhofud, frelsadú oss frá ollu því, sem oss ad sálartjóni ordid gétur, því þad einu kollum vér íllt, og ei annad; og géf oss sídan, ad strídinu fullendudu, sáluhjálpligann vidskilnad frá heimi þessum, svo daudinn verdi oss ad ábata! O heyrdú nú, himneski Fadir! þetta vort hjartanliga

bænarkvak til þín; þú ert vor kóngur, en vér erum þínir vesælir undirsátar; þig brestur hvorki mátt né visdóm til ad hjálpa oss, og vér skulum sídan ad eylífu dýrka þig og þacka þér, fyrir bænheyrsluna! amen!

---

## 7undi Sálmur.

Gud Fadir, Son og Andi einn, englanna kóngur máttar hreinn, himininn hvørs ad hástóll er, heimar gjørvallir lúta þér!

Þitt ord og sannhelg sakrament, sem oss fá nádarkrapta lént, haldist, med trúnni, hjá oss vid, heidran og gudligt líferniþ!

Í oss þitt ríki eflist hér, undir vort hjarta leggi sér, svo þú drottnir þar inni einn, ecki þad hindri kraptur neinn!

Unn oss ad hafa engla lund, í því ad reynast hvørja stund, hlýdugir þínum vilja vel, verkadu hjá oss audmjúkt þel!

Nægir oss, Herra! nádin þín, nádþurftugum sem aldrei dvín, sadníng dagliga' og svølun tjá; syndum og løstum snú oss frá!

Í Jesú nafni vér bidjum best, brotin ótal oss forlátist; lífernisbetrun lofum senn, líknargjarnir vid adra menn!

Freistingar ótal holds og heims, hindra' oss frá

notum dýrdar seims, adstod þeim mót oss vsiga tjá, einkúm í dauda vert oss hjá!

Ollu því, sem oss ásækir, illu' og skadligu' í heimi hér, leystu oss frá, nær lifid dvín, leid oss í himnavist til þín!

Heyr og bænheyr oss, Herra vor! hvørs ad er ríki' og maktin stór; á þinni dýrd er aldrei hlé, amen! seg, Drottinn! þad skal ské!

## Bænin.

O þú þríeini Gud! Fadir, Sonur og heilagur Andi! engla og manna eylífi Kóngur! þú, hvørs hásæti ad himininn er, en jordin skør þinna fóta! allir þeir þúsund heimar, sem þú skapad hefir, vegsami þig, hvør ein skepna í hvørjum heimi, og hvør ein tegund í hvørri sképnu! þitt háverduga ord og sakrament, í hvørjum heilagleiki og dýrd þins nafns oss bodad verdur, þessi blessudu nádarmedøl, sem ecki einasta sýna oss mátann gott ad gjøra, heldur midla oss líka kroptum þartil, géf ad þau vidhaldist hjá oss hrein og ómeingud, svoad trúin, kjærleikurinn og gudligt líferni megi þaraf spretta! þá verdum vér réttir undirsátar þins nádarríkis, og hjarta vort þitt musteri, í hvørju enginn mun þá drottna né dýrkast, nema þú alleinn, þá mun vor skynsemi upplýsast af þínu ljósi, vor vilji helgast af þínum anda, og vorar tilhneigíngar lagast eptir þínum bodordum. O Drottinn! útrek alla þá, sem þetta þitt musteri saurga vilja, og grundvalla þinn helgidóm í allra kristinna hjørtum! Æ! þó vér synd-

ugir séum, unn oss ad engla lunderni mætti æ meir og meir hjá oss uppkoma, sem í því falid er, ad vor vilji lagist æ betur eptir þínum vilja, svo vér offrum þér fúsri hlýdni, lofgjörd og þakklæti, í audmýktinni. O verkadu, Drottinn! þetta hugarfar med oss, og lát þad verda hjá oss þess rótfastara, sem vér lengur æfumst í skóla trúarinnar, hér í lífi! Oss nægir ad sonnu, ó Fadir! nád þín vid sálir vorar, enda bregdist hún heldur aldrei neinum, sem hennar í trúnni, voninni og bæninni leita; en af því þú sett hefir vorum ódaudligu sálum til bústadar um hríd, eitt brothætt hreysi, sem er vor líkami, þá bidjum vér þig audmjúkliga, ogsvo ad géfa þau ómissanligustu medöl til hans vidmakthelldis, sem eru: fædi og klædi, en þó med þvílíkum skamti, sem þú sér oss hentast vera; en umfram allt, frídu þó sálir vorar frá syndinni, því nær hún er í burtu, hljóta allir adrir hlutir ad verda oss ad gódu! Já, miskunsami Fadir! vér itrekum þessa vora bæn til þín: Fyrirgéf oss vorar syndir og öll brot ámóti þér, fyrirgéf oss þær, vegna þíns Sonar Jesú forþénustu og fyrirbónar! Vér heitum þér aptur á móti, svo sem til lítils þakklætismerkis fyrir nád þína, vorri lífernisbetrun, og lofum ad sýna hana í breytni vorri vid náungann, einkum vora óvini og óvildarmenn, med ad fyrirgéfa þeim, og elska þá, eptir þínu dæmi og bodi! Æ hjálpadu oss móti Andskotans, heimsins og holdsins freistíngum, sem hindra vilja oss frá ad ná eylífu lífi; íklæd oss krapti af hædum, til ad mótstanda þeim, og yfirvinna þær! og

Þegar vor síðarsti óvinur, dauðinn, að oss fer, gjör hann þá orkulausann móti oss, fyrir krapt Jesú dauða, sem sigrað hefir synd og deyð, sjálfann djöful og vítisneyð! Já, frelsaðu oss frá öllu sannnkölluðu illu, sem oss í heimi þessum ásækir, hvörs einasta rót að syndin er; og láttu, góði Faðir! sáluhjálpligan dauða á öllu voru stríði farsælann enda gjöra; svo vér, eptir dauðann, komumst til þíns himneska ríkis, hvaðan öll synd og sorg eylífliga er útrýmd, en réttlæti og fögnuður standa mun í fullum blóma! Heyr oss nú og bænheyr, himneski Faðir og Kóngur! hvörs ríki er réttlæti, friður og fögnuður í heilögum Anda, hvörs máttur sýnir sig í frelsi syndaranna, fyrir trúna á Jesúm; og hvörs dýrð framskín í auglýsingu þíns réttlætis og miskunar, við allar þínar skynjandi sképnur, en einkum við oss Adams niðja. Innsigla nú bænir vorar með þínu náðar-amen, og seg til vor: verði yður, sem þér viljið! Amen! í Jesú nafni, Amen!

---

## Þriðji Flockur

### Sálmar og Bænir til sama augnamiðs.

---

### 1ti Sálmur.

Lagið: Kjær Jesú Kristi, kom þú nú o. s. frv.

Lífs og ljóss Faðir! lof og dýrð sé þér, sem gafst, að glaðir, gétum lifað hér; fyrir Son þinn sæla,

sendann oss á láð; er veitti von inbæla, að verða í þinni náð; þartil stoðar orð þitt oss, í því skoðum dýrðarhnoss, og friðar boða fyrir hans kross, er fyllir trúar dáð!

Dag þennann, Drottinn! sem bregst að næturtíð, einn ástarvottinn, ennþá sendir lýð, fyrir kénníng friða, er festa skyldi rót, að þú allra lýða, endur- girntist bót, svo eptir mæðu eigniſt frið, og allra gjæða sælgjætið; æ þá ræðu vakni við, í veröld ýðran skjót!

O Jesú! á þig, einann set eg traust, syndmæddann sjá mig, sem að þína raust, heyra girnist hýra; hjálpaðú aumum mér! lát þitt ljósið dýra, lýsa í myrkrum hér! svo eg feiginn sælu þá, sem eg þreyi himnum á, hreppa megi, og hana fá, nær heiminn kveðja fer.

## Bænin.

Svo er þá þessi blessaði dagur á enda, himneski Faðir! sem þú létst, af náð þinni, upprenna yfir oss í morgun. Margar blessanir hefir þú að sönnu oss á hönum veittar, en samt hina dýrmætustu þá, að þú hefir unnt oss að heyra þitt heilaga orð, í hvörju þú hefir látið boða oss þinn friðar sáttmála, fyrir Jesúm Christum. Þú hefir, einsog ótalsinnum áður, látið segja oss: að ef vér gjörum sanna ýðrun fyrir syndir vorar, með lifandi trú að oss tökum þíns Sonar Jesú forþénustu, og síðan af alúð kappkostum að betra vórn lifnað, leynt og ljóst, fyrir þér, þá viljir þú fyrirgéfa oss allar vorar misgjörðir, og ecki einasta aldrei straffa oss fyrir þær, heldur gjöra oss svo

farsæla í eylífdinni, einsog vér hefdum alla vora æfi-daga framgeingid í einskjærum heilagleika og réttlæti. Æ nú bidjum vér þig, gódi Fadir! um adstod þíns heilaga anda til þess, ad vér, uppfrá þessari stundu, getum tekid svo þessum þínum fridarkostum, ad vér mættum, blessun þá, er þeim fylgir, eylífliga úr býtum bera. Veit oss med nýbyrjadri viku nýan lifnad ad byrja, og svo framhalda honum, svo margar edur fáar vikur, sem þú villt láta oss í þessum heimi lifa. Hjálpa oss nú ad gánga til sængur med þeim fasta ásetníngi, dagliga uppfrá þessu ad kappkosta, ad vard-veita dóma þíns réttlætis med heilögu hugarfari og hegdun; svo vér loksins tekid getum á móti dauda vorum, fullvissir um þína nád, í Jesú Christó þínum Syni, og svo hluttakandi ordid, eptir daudann, eylíf-rar sælu á himnum, ásamt öllum þínum sigrihrósandi útvöldum. Bænheyr oss hér um, himneski Fadir! vegna þíns kærleika til vor í Christó, fyrir samverk-andi nád heilags Anda! amen!

**Vers.** Svo vér til sængur, sælir gaungum fljótt, Guds verndar vængur, veiti oss ró í nótt, ljós nádar kisi, í læstum hjartans rann, ef ad oss yfir, ædi daudinn kann; verdur öllu óhætt þá, engin spjöll Guds heitum ná; í fridarhöll vér fáum sjá, Frelsarann Gud og mann.

---

## 2ar Sálmur.

**Lagid: Á Gud alleina, eg o. s. frv.**

Dags ljósid dvínar, Drottinn Gud! sjá minn hag; minnst ecki' á mínar, misgjørdir lidinn dag! frels mig af føllum, fús þeirra' eg ydrast vil; gleym mínum gøllum, Gud! þig eg einkis dyl, og þeim søktu øllum, í þinn miskunarhyl!

Heyr alla, Herra! er hrópa til þín af rót, lát þrautir hverra, þeirra, og vinn þeim bót, syndanna sárin, svída nú þeirra lund; tel úthellt tárin, trúar þeim géfdú stund; um eylíf árin, auktú þeim sælu-mund!

Gled þig í Gudi, grátandi, sála mín! full af føgnudi, fyrir Guds Sonar-pín, sem þínum syndum, sjálfur uppá ~~þig~~ hans blód; mørg oss mannkyndum, miskunin þaraf stód, frid svo vér findum, fyrir hans dýr-mæt. blód!

## Bænin.

O Drottinn! mikil er þín miskunsemi, sem dagliga vidhelldur oss og verndar; þú ert samur og jafn í þinni náð, ad eylífu! aldrei lætur þú af ad gjøra oss til góda, þótt vér látum seint af ad móðga þig med syndum vorum. En þar þú sett hefir ydrun þeim syndugu, þá bidjum vér þig, í þíns Sonar Jesú nafni: fyrirgéfdú oss vorar syndir, og tilreikna oss ecki vorar yfirtrodslur; því nær þú hefir fyrirgéfid oss þær; og tekid oss til nádar, þá erum vér óhræddir um oss fyrir øllum vorum óvinum. Hverki sú drep-

sóttin, sem í myrkrunum læðist, né hin, sem um miðdegið forðjarfar, kann oss þá að skaða. Vor svefn og vaka, vor hvíld og erviði, sorg og gleði verður oss þá til bestu blessunar; já, lífið og dauðinn er oss þá jafnkjært, og velkomið. Vér felum oss nú alla, Drottinn! á þitt náðar vald; gjörðú því við oss hvað gott er, fyrir þínu heilaga augliti! Ef þú villt lofa oss að lifa, géf oss þá að lifa til þinnar dýrðar; en viljir þú láta oss deya, æ lát oss þá deya í þinni náð og vináttu! þíns Sonar Jesú Christi blóð hreinsi oss af öllum vorum syndum! Svo viljum vér þá réttlættir prísa þig hér í þinu náðarríki; en dýrðligir gjörðir annarsheims syngja þér lofgjörð, með öllum þínum útvöldum, eylífliga! amen!

Vers. Þar dagur þessi, þrotinn nú reynist téð, biðjum að blessi, byrjaða nætur tíð, Guðs gæðskan fróma, og géfi værðar hnoss, láti sinn ljóma, lýsa náðar oss, en hels hepti dóma, hann sem deyði á kross!

---

## 3ji Sálmur.

Lagið: O vér syndum setnir, o. s. frv.

Dagur er enn á enda, aðkominn nætur stund; vyrðst þú oss værð að senda, vor Guð! og sætann blund; það skéður, þú ef leiðir, þinn anda hjörtun í, trúar líf sem tilreiðir, og tendrar elsku á ný; svo verður samvitskan, södd af frið, er ávann, Jesús, vor bar vort bann;

Hans minníng blessud blifi, blessud um eylífd fé! sínu hann svíptist lífi, svo hann oss frelsi í té, frá tegmáls-léti banni, er lá yfir allri þjód, en hefir hvørjum manni, hímins afrekad sjód, sem elur sanna trú, á Son Guds, í heimi nú, uppgéfast ei má sú!

Uppvek hjá øllum trúna, á þig, minn Jesú kjær! svo hreppum blessun búna, best sem oss styrkta fær, þegar hels þruma dynur á þetta vort lasna hold; svo hreysid sálar hrynur, og hlýtur ad verda ad mold; beri þá blak af oss, þinn benja raudur foss, kvalníng og daudi á kross.

## Bænin.

Um hvørsu innilígar þackir erum vér nú, ó Gud! skyldugir gædsku þinni, fyrir oss í dag, sem endrarnær, audsýnda nád; vernd og vardveitslu; ó ad vér gætum goldid þér þær, svosem oss ber, og med audmjúkum, en þó þacklátum anda vidurkénnt: „minni erum vér, Drottinn! miskunsemi þinni, sem þú hefir audsýnt oss, þrælum þínum!" já þúsundsinnum minni, þegar vér hugleidum vorn stóra óverdugleika ad njóta miskunar þinnar; vorn, segi eg, sem enn í dag, eins- og alla vora daga, høfum þín heiløgu bodord brotid, med hugrenníngum, ordum og verkum. Æ þessvegna vogum vér nú ecki, ad frambera fyrir þig þacklætis-fórn fyrir velgjørdir þínar, nema vér høfum ádur fengid fórnaraltarid, sem ætti ad vera hjarta vort, hreinsad med ydraninni og rjódrad med Jesú blódi fyrir trúna. Þarfyrir bidjum vér þig, himneski Fad-ir! fyrirgéf þú oss syndir vorar og illgjørdir, bædi

þessa dags, og allra vorra liþinna lífsstunda! Fyrirgéf oss þær, fyrir þíns Sonar Jesú blóds og dauda skuld, og láttú þær ecki fylgja oss fram á komandi nóttu; svo hvort vér lifum eda deyum, ad þín nád og hans réttlæti sé vor eigindómur. Vardveit oss sídan á komandi nóttu, frá øllum voda og allri ólucku; og leyf oss á komanda morgni, sé þad ecki vilja þínumm móti, ad líta aptur dagsins ljós, til ad lofa þig og vegsama; og sídan í þínum ótta frammvegis ad lifa, allt til æfiloka, og loksins sáluhjálpliga ad deya! amen!

Vers. Oss þínum fadmi felum, Frelsari! þessa nótt, varnadu Satans vélum, svo verdi' oss í svefni rótt! unn oss svo upp ad rísa, aptur ad morgni dags, og þína ást ad prísa, sem unnti oss værdarhags; loksins vid daudans dúr, þá dymmir ad Heljar skúr, vertú vor verndar múr!

---

# 4di Sálmur.

Lagid: Stridsmenn þá hofdu krossfest Krist, o. s. frv.

Nú sígur, Drottinn! nóttu ad, nálægjast myrkur svørt, samt bregdst ei mildi þín vid þad, þú, Sólin nádar bjørt! skýn þú oss øllum strax í stad, svo stillist sorgin ørt! heyrdu nú hvørs þitt barnid bad, bjód þú þad verdi gjørt!

Myrkurin eru lík sem ljós, lifandi Gud! hjá þér, aldrei følnar þín elsku rós, ef trú ei bregdst hjá mér, þad er vor stærsta heill og hrós, ad hafa þig æ med sér, sál mín þann gefna kostinn kjós, Kristur sem øllum tér.

Flýum þá, Gud! í fadminn þinn, í Frelsarans Jesú trú; taktú oss, Fadir! fús þar inn, festing óyggjandi? hult sú, ástar á dyrann eidstafinn, æ minnstú, Drottinn! nú, brodd ef ad daudinn brýnir sinn, brjót hann í sundur þú!

# Bænin.

Ennþá höfum vér í dag, himneski Fadir! reynt ný merki miskunar þinnar, þar þú hefir oss, allt til þessarar kvøldstundar lifandi og heilbrigdum á líkamanum vidhaldid, og þaradauki géfid oss þín dýrmætu nádar medøl, til ad vidhalda andligu lífi og heilbrygdi sálna vorra. Lofadur og vegsamadur sértú þá, fyrir alla þína nád og miskunsemi, oss óverdugum þrælum þínum í té látna, allar vorar lidnar lífstundir! Ó! haldtú, gódi Fadir! þeirri sømu ennnú fram vid oss, bædi á komandi nóttu og alla vora eptirfylgjandi æfidaga! Vér høfum ei til annars ad flýa, enn til þín, því þú ert alleinn sá, sem oss kannt ad hjálpa. Auglýs þessvegna á oss mátt nádar þinnar, ecki einúngis í því, ad géfa oss þetta líkamliga líf, og þad, sem því tilheyrir, heldur enn miklu framar, med ad veita vorum sálum allar blessanir og gædi þess andliga lífs, í þínum elskuliga syni Jesú, og med því ad vidhalda oss stødugum, í sameiningu trúarinnar med hønum, allt til daudans. O géf oss nú á þessu kvøldi svo útaf ad sofna, ad vér ádur sèum, fyrir þinn anda, vissir gjørdir um nád þína og vináttu; svo hvort sem þessi nótt ætti ad verda vor sídasta, edur ecki, ad vér gladir og farsælir fáum morgundaginn ad sjá, hvort heldur í þessum edur ødrum heim. O Drottinn! vér treystum þinni gædsku, því hún er óendanlig og ómumbreytanlig, sem sjálfur þú! Láttú oss njóta þíns Sonar Jesú medalgaungu! uppá hans fyrirbón og forþénustu reidum vér oss í trúnni; bænheyr oss fyrir hans sakir! amen!

**Vers.** Komi þá svefninn sæll í rann, sem þarf vid líkams kér, Gud oss blessi til heilla hann, svo hressist kraptarner! en ef ad daudinn ogsvo kann, uppá oss falla hér, óvægur skadar engann þann, er, Jesú! treystir þér!

---

# 5ti Sálmur.

**Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom, o. s. frv.**

Til þín, ó Jesú! augu vor, upphefjum þessu sinni, híngad til lífsins hafa spor, í hag greidst, af miskun þinni. Bidjum af hjarta børn þín kløck, ad burtu rýmir því verra, þar komin er nætur dymma døck, en dagurinn tekur ad þverra: æ vertú hjá oss, Herra!

Vid Emaus fordum þú sem þá, þángad gengu, bænheyrdir, og virdtist í nád þeim vera hjá, verkandi fridar eyrdir; eins vora hjartans heyrdú bón, hjá oss í nótt ad búa, þaraf kjætist vor sálar sjón, en sorgirnar burtu snúa, trygd þinni megum trúa.

Þó ad oss straffir þrjótska fyrst, þad er oss mjøg til góda, audmýktar þar vid æfist list, ydrunar tár ad bjóda; hugga oss sídan, Herra! bezt, med hógværdar ordi þínu; mundu til þess, ad mæddur grétst, margopt í lífi þínu, þó helst í þinni pínu!

## Bænin.

Lof og þacklæti sé þér, eylífi Fadir! fyrir alla þína nád oss veitta, allar vorar lífsstundir, bædi í tilliti til líkamligra og andligra efna, einkanliga á þessum nærstafslidna degi. Hvør dagurinn segir þad ødrum, og hvør nóttin annari, já, hvør stundin og hvørt augnablikid ødru, hvørsu þú, ó Drottinn! lætur þína miskun oss í té, svo óþackiátir og óverdugir, sem vér þó hennar erum. Æ þad ángrar oss, ad vér svo lítt høfum kapnast vid gædsku þína híngad til, og enn sídur nýtt oss þau medøl, tækifæri og krapta til þess góds, sem hún oss í té látid hefir, svo fullur réttur til væri, þó þú værir þreyttur ordinn á, oss miskunsamur ad vera. En þú ert Gud, og ecki madur; þú hefir sjálfur lýst sjálfum þér svo, ad þú sért miskunsamur, líknarfullur og trúr, og fús til ad fyrirgéfa misgjørdirnar øllum þeim, sem af hjarta ydrast þeirra. Æ vér flýum þessvegna til þinnar grunnlausu misk-

unar, sem Þinn Sonur, Jesús Kristur, hefir opnad oss adgáng til; vér flýum til hennar, og bidjum audmjúkliga: Fyrirgéf oss, í Jesú nafni, allar vorar syndir móti Þér, allt vanÞacklæti Þinna velgjørninga, alla misbrúkun Þinna nádarmedala, alla forsómun géfinna krapta og tækifæris til hins góda. Já, bæt Því nú ofaná allar Þínar undangengnar velgjørdir, ad unna oss ennnú framvegis Þinnar nádar og nádarverkana í vorri sálu til helgunar og sáluhjálpar; og sérílagi á eptirkomandi nóttu, láttú, Drottinn! Þína hønd vera yfir oss, til hlífdar og varatektar fyrir øllu vondu; já, snú Þínu blída augliti til vor, og vertú oss øllum nádugur og miskunsamur, fyrir Þíns Sonar, Jesú Christí, forÞénustu sakir! amen!

Vers. Er Þad vor allra ósk og trú: ad Þú, vor Jesú kjæri! sért hér í vorum selskap nú, svoddan von gledi nærir; á dyr vors hjarta dreyra Þinn, drjúpa lát oss til bezta, svo vondir Þánkár engir inn, orki sig Þar ad festa; blessan Þá lát ei bresta!

---

## 6ti Sálmur.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug og sál, o. s. frv.

Þessa dags, Gud! er Þrotin tíd, Þannig lyktar vor æfi um síd, undirbú oss til endadags, enginn veit nema hann komi strax; kveik í oss ydran, tendra trú, tállausa betrun verka nú, umvendun Því ad sønn er sú.

Umvendunarlaust enginn mann, til eylífrar sælu komast vann, Þinn Sonur kéndi' oss Þennann veg, Þó hann ad feta lund sé treg; æ, Gud! láttú Því anda Þinn, audsýna Þar í kraptinn sinn, ad ræti oss øllum ydrun inn.

Son Þinn fyrst gafstú øllum oss, og lézt hann søkum vor deya á kross, géf Þú oss anda einnig Þinn, annars nægir ei skeinkur hinn, er leidi oss rétta lífsins slód, loks svo ad hreppum afdrif gód, fyrir Þíns Sonar blessad blód!

# Bænin.

Lofadur og vegsamadur sértú, eyliſi miſkunſemd-annna Fadir! fyrir þad þú á umlidnum degi, einsog alla vora umlidna æfidaga og ár, hefir unnt oſs alls þeſs góda, ſem þú hefir oſs ſann-naudſynligt féd til lifs og ſálar-heilla. Þú hefir géfid oſs forſorgunar-medøl fyrir vórn likama, og frelſis-medøl fyrir vora ſálu, ſvo vér bædi med likama og ſálarkrøptum mættum þjóna Þér, ſem ert Drottinn vor Fadir og Frelſari. En med hvílíkri varmennſku høfum vér goldid gjædſku þína? Likamans limu høfum vér léd ránglætinu til verkfæra, en ſálir vorar ſyndugum girndum til íbúdar. Æ fyrirgéfdú oſs þad, Fadir allrar mildi! og lát oſs ecki uppſkéra maklig laun athafna vorra, hvørki á þeſsari nóttu né endrarnær! Hvørt ſkulum vér annad flýa enn til Þín, ſem lofad hefir ydrandi ſyndurum nádarfullri vidtøku! Tak því á móti oſs í þíns elſkuliga Sonar Jeſú nafni, og fyrirgéf oſs allar vorar likams og ſálar ſyndir, fyrir ſakir allra þeirra bitru kvala, er hann ſaklaus leid, á likama ſínum og ſálu; já láttú hans bleſsada blód hreinſa ſálir vorar og ſamvitſkur, af øllum ſyndanna ſaurugleika. Svo viljum vér þá, þeirri blódugu ádreifíngu fágadir, nú í kvøld, leggjaſt útaf til ſvefns, í þínum miſkunarfadmi, himneſki Fadir! Í hvørjum vér óſkum oſs ad mega ſídaſt ſofna þeim ſídaſta daudans dúr, til ad vakna upp aptur forkláradir í þínu dýrdarríki! Veit oſs þad, af þinni nád, fyrir Jeſú Chriſti ſkuld! amen!

Vers. Svo viljum gánga ſængur í, ſættir vid þig, ó Gud! á ný, óhultir fyrir allri neyd, eins hvad hlytum kanna deyd; vak þú, minn Jeſú! yfir oſs; oſs er þá búid ſælu hnoſs, hnoſs, er á þínum keyptis kroſs!

## 7undi Sálmur.

Lagid: Um daudann géf þú, Drottinn! mér, o. s. frv.

Svo er þá vika endud enn, ein fyrir gædsku þína; ó þú Gudddómsins eining þrenn! yfir oss létstu skína, anblitis ljómann ædsta þinn, er hann þín stóra miskunin, sem vid oss gjördir sýna.

Af Syninum þetta ljómar ljós, sem leiptrar í ordi þínu, sú er hin stærsta heill og hrós, í hjarta þad geyma sínu, vísar þad oss á veginn lífs, en varnar myrkrum andarkífs, Frelsarans fyrir pínu.

Þúsund margir vid þetta ljós, þrædt hafa veg til hæda, sem ad nú fremja sigurhrós, sitt eptir strídid skæda; adrir þess glansa gánga í, gegnum myrkurin skadafrí, létt er þeim lífsins mæda.

Æ svo lengi oss ætlast skal, eptir rádstöfun þinni í búa þessum eymda dal, önd vor þeim ljóma sinni! svo ad á daudans dymmri stund, dýrd þess forklári sídsta blund, en bezt í eylífdinni!

### Bænin.

O ad vér gætum nú, heilagi Fadir! þackad þér, sem makligt er, alla' þína miskun og mildiríkar velgjördir, er þú, á umlidnum degi, alla þessa nú útendudu viku, já, öll vor aflifud æfiár, af einskjærri nád þinni audsýnt hefir og í té látid! O, ad hjörtu vor væru til þess þacklætis tilreidd og hæfilig gjörd, af helgandi krapti þíns anda, þá hefdum vér þess fullvissara traust, ad vænta hins sama framhalds giædsku þinnar, vid oss, eptirá, sem híngadtil. Æ hreinsa þessvegna, gódi Fadir! hjörtu vor, fyrir lifandi trú á þíns Sonar nafn! Fyrirgéf, fyrirgéf oss allar vorar syndir, fyrir sakir hans blódugu fórnfæringar á krossins altari, og kasta þeim í hafs djúp þinnar grunnlausu miskunar, svo minníng þeirra ecki uppkomi ad af eylífu! Því nær þú hefir þær frá oss tekid, og réttlætt oss aptur fyrir trúna á hans blód, þá erum

vér hæfiligir ordnir til allra gódra verka, til ad lofa þig og vegsama, þacka þér og þjóna, hlýda þér og eptirfylgja, alla vora lífdaga. Svo minnumst vér þá med þacklæti og lofgjørd þinna umlidinna velgjørda, og hløckum til, med von og trausti, ad njóta þeirra sømu framvegis. Vér endum þá gladir dag þennann og þessa viku, því vér vitum, ad þín nád og trúfesti tekur samt engann enda yfir oss, heldur varir eylífliga. Já, vér erum þess gladari, sem vér vitum ad meir fækka vorir hérvistar dagar og vikur í heimi þessum, þar vér nálægjumst því framar dagsbrún þeirrar sælu-fullu eylífdar. Æ gef oss svo med lifandi trú, vøku og bæn, ad búa oss undir vort sídarsta æfikvøld, ad vér uppvakna mættum, eptir þinni mynd, ad morgni þess eylífa dýrdar Sabbats, og í hádegis ljóma þeirrar himnesku Jerúsalem, ásamt øllum þínum útvøldum, sjá þig og skoda, vor Gud og vor Frelsari! frá aug-liti til auglitis, eylífliga! Veit oss þad, fyrir sakir þinnar elsku til vor, í þínum Syni, Jesú Christó, vor-um herra! amen!

Vers. Þú Jesú, sem í þinni grøf, á þessum hvíldist degi, en uppreist ad morgni utan tøf, unn oss ad sál vor megi, á morgun upprísa einsog þú, til andligs lífs í sannri trú! æ lát þad bregdast eigi!

# Viku-Sálmar

og

# Bænir.

Utgéfnir

af

J. Jónssyni,
Presti til Grundar og Mödrufells.

Kaupmannahöfn.
Prentadir hjá S. L. Möller.
1832.

# Viku=Sálmar,

allir med alþecktu, líku lagi.

## 1ti, á Sunnudags Kvøld.

Sólar dag, sálar hag, sannhelg Guddóms brenning! menta lézt, lýdinn best, lífs med rædu kenning; veit þitt ord, vídt um storð, verki lasta grenning, og manns bygda menning!

Eckért hnoss, annad oss, ætti ad vera kjærra, enn miskun þín, skjært er skín, skýum lægra og hærra; æ henni þá, unn oss að ná, eckért girnumst stærra, né blessunar bærra!

Styrk oss hér, þjóna þér, og þínum bodum hlýda, af hjartans rót, hvad sem mót, heillum náir strída; svo vor bygd, sé vel bygd, á Sonar kjærleik blída, er trú fædir frída!

Vort er líf, veikt, en kíf, í verøld nóg ad reyna;

send oss því, ánauð í, aðstoð náðar beina; þó ávallt, umfram allt, ást og trúna hreina, lát sér ei leyna!

Jesú blóð, blessi þjóð, burtu syndir mái, hefndar glóð, hels frá flóð, hvergi til vor nái! opni sjóð, gjæðskan góð, Guðs, (sem eptir þrái), frið svo hver fái!

---

## Lag, á Mánudags Kvøld.

Dagsljósið dvínar, Drottinn! í þínar, sál hendur seljum, sæla þá oss teljum, af umsjón þinni, ef hún oss hlynnir, líf þartil linnir.

Packlætið þýða, þitt fyrir blíða, ástríki ótalda, oss ber að gjalda; Guð! þú oss gladdir, gjæfu tilkvaddir, sál og líf saddir!

Allt frá þér einum, ofan koma reynum, gott, sem oss gleður, gjæðum lífsins meður; ei gjørist grunnur, af gnógt sælu kunnur, þinn blessunar brunnur!

Vér þó ei verðir, velgjørða mergðir, þinar að þyggja, þig sem náum styggja, séum, samt vænum, sárt til þín mænum, bljúgum með bænum!

Sonar þins sakir, sjáðu vort kvakið; brot vor hann bætti, blessaður við þig sætti, hóp þinna sauða, með sínu blóði rauða, og dýrmæta dauða!

---

## 3dji, á Þridjudags Kvøld.

Dagur horfinn einn er, æfistunda minna, sérhvør annar svo þver, sem þeir umlidinna; veittú Drottinn minn mér, miskunsemd ad finna, uns lífstundir linna!

Forsjón rædur føst þín, fyrir vorum høgum; metur endamerk sín, mædu- og rauna-sløgum; gjørvøll lucka, Gud! mín, geingur ad þínum løgum, á øllum æfidøgum.

Eins til þacka eg tek, øgun og huggun frá þér; veit eg mín er sál sek, sem þarf vægdar hjá þér; heimur ef vid lund lék, lítt vard traustid á þér, medkénna eg má þér.

Fyrirgéfdú mín mørg, misverk, Drottinn gódi! þó þau séu alþýørg, augljós, sem í hljódi, sendtú minni sál bjørg, svo hún fyrrist módi, í Krists krapta blódi!

Er mér þá óhætt, eins í vøku og blundi, geing eg þá og sef sætt, sáttum þinum undir; allt verdur bøl bætt, vid búnar lífsins stundir, á Guds fridar fundi!

---

## 4di, á Midvikudags Kvøld.

Geng eg nú, Gud minn! greidt ad hvíldarbólí, um mig bú, eittsinn, enn í þínu skjóli; von mín sú, vel finn, víst er ei á hjóli; skal hún minn skóli!

Skóli sá, skal mig, til skyldu trúar hvetja, ad eg á, einn þig, eigi traust ad setja, og þar frá, aumlig, engin kjør ad letja, er ná hér inetja!

Er þín trygð, eins sker, oss þó typta hljótir; en engin trygð, er dýr, oss þín loforð brjóti; vor er bygð, víst rír, ef veröld hlær á móti, náðar þó njóti.

Oss í nótt, svæf sætt, sjálfur Guð! vér biðjum; gjörðu skjótt, 'böl bætt, búið Adams niðjum; verður rótt, géð grætt, gráts í dalnum miðjum, umbót ef yðjum!

Fyrir þinn, Son, er sinn, seldi dreira úr æðum, leið oss inn, loks í hinn, lífsins sal á hæðum, eymda grynn, óløg stinn, með öllum lífsins mæðum, en gleð dýrðar gjæðum!

---

## 5ti, á Fimtudags Kvöld.

Kvölds er komin stundin, kallar þörfin blundinn, hvílðar leitar lundin, við lífs andstreymi bundin; ó Jesú! þín yndin, auki trúar mundinn, svo hrygð sé burtu hrundin!

Mörg er manns ástríða, er megnum þvíngar kvíða; gott er að lifa og líða, og lífs á himnum bíða; þá mun sælan þýða, þeirra kjörin prýða, hér sem trúa og hlýða!

Géf oss, herra góði! gleði úr þínum sjóði, 'ei so böl osbjóði, né bannist friðar gróði, hrittu hrygða móði, hreinsa oss þínu blóði, því frelsunar flóði!

Mildi Kóngur manna! meinin græð syndanna;

lát oss tvittun kanna, svo kjæti hreppum sanna; ef dauda ber ei banna, ad brjóta fjørid granna, leid oss lífs í ranna!

Vík burt øllum vanda, og vélum sálar fjanda, er eymdum allra handa, inní lífid blanda; láttu ljóssins anda, ljúfa hjá oss standa; mun þá mein ei granda.

---

## 6ti, á Føstudags Kvøld.

Þessi er dagur þrotinn, (þángad hlaut ad berast), mørg eru misbrotin, má því ydrun gérast, svo nádar hreppum notin, nockud má í skérast, heilagt verk handtérast!

Heilagt verk má heita, hreina ydrun drýgja, Drottins líknar leita, med lundu hræsnis fría; berum oss [illegible] svo
breyta, og bidja um miskun nýa, fár svo mættum flýa.

Allt á Jesú einum, eigum traustid festa, hann med dreira hreinum, hreinsun gjørdi besta, Gud, í øllum greinum, gjørir þá ei fresta, miskun votta mesta.

Lofum lifnad bæta, lífs á voru skeidi, mun þá nád oss mæta, en mýkjast forþént reidi, ordid Guds ágæta, oss til bygda leidi, gøtu fridar greidi!

Christó líkjast keppum, kristnum er þad sómi; slíkri æru ei sleppum, svo slitni saka drómi, en hærstu lucku hreppum, ad Herrans fridar rómi, bædi í deyd og dómi.

---

## 7undi, á Laugardags Kvøld.

Komin um síd, kvøld=tíd, kénnir líf ad endi, og eptir stríd, um hríd, ad oss fridur vendi; værdin blíd, veitt lýd, verdur þá í hendi, Kristur sem kéndi.

Hvørjum þá, helzt má, hamingja sú veitast, greinir frá, Guds frá, sem gjørir ecki breytast; þad er sá, sem þrá, synda reynir heitast, og líf betra leitast.

Ydran, trú, sønn sú, er sæmir kristindómi, gjørir nú, Guds hjú, glød af nádarrómi; sál mín! þú, þig bú, þinn svo framist blómi, sigur og sómi.

Vikan ein, ósein, er nú þegar flúin, hafa ei nein, hørd mein, hingad verid snúin, nádargrein Guds hrein, gódum mun tilbúin, treystir því trúin.

Nádin þreyd, Gud! greid, géf þín frelsi þjódir; oss í neyd, ábreid, ást, svo fyrrumst módi, en í deyd, loks leid, lífs á dýrdar slódir; heyr þad, Gud gódi!

# Dagligar Bænir
## í Stefum.

---

### 1ta, á Sunnudag.

Eylífi Gud! vor ædsti og besti Fadir!
af øllu hjarta nafn þitt lofum gladir;
þøckum einnig þinnar gjæsku dádir
þúsundfaldar, sem oss veita nádir;
lidinn dag og lífstundirnar allar
léztu þær oss sérhvørjum tilfalla,
enginn af oss orkar þær ad meta,
enginn heldur mun þær talid géta.
Mest er þó sú miskun þín af øllum,
nær midladir oss bót vid synda gøllum,
í þínum Syni Jesú Christó kjæra,
sem kom á jørdu lífid oss ad færa;
med sínum dauda dró hann oss frá pínu
og dýrdlig kjør í ríki veitti þínu;
børn þín nú en brædur hans vér heitum,
bænheyrir oss! nær vér til þín leitum.
Oss áminnir, einsog Fadir bestur,
med ordi þínu, vid þess heyrn og lestur:
ad vér skulum stunda ad gjørast gódir
og gánga réttar trúarinnar slódir.
Í dag vér høfum heyra fengid þetta,
hjálpadu oss ad bera ávøxtu rétta,

unn oss vara einns í trúnni og dygdum,
yfir þínum gladir vera trygdum;
veit oss orku vel í trúnni ad strída,
vaka, bidja og þolinmódir lída;
svo vér hjá þér loksins fáum lenda,
í lífi því, sem engann tekur enda;
hvar børn þín øll í blóma dýrdar glědjast
af brunni þinna vellystínga sedjast;
fyrir þinn Son, Frelsarann Jesúm mæta,
Fadir! vyrdstu ad bænum vorum gjæta!
Amen!

---

## Lur, á Mánudag.

Í hædir til þín hefjum nú vorn anda,
Herra! Kóngur alheims, þjóda og landa!
Í Jesú nafni vér þig bljúgir bidjum,
být oss nád, svo þína dýrkun ydjum.
Lát þíns Ríkis løg oss heiløg vera,
lát oss dygd og trúar merki bera;
helga bædi húsin vor og hjørtu
himnesku med sannleiks skíni bjørtu;
veit þú oss med vøndudu hjarta og sinni
verk øll fremja skipun eptir þinni,
samvitskuna svo vér geymum góda,
gjætandi þess, sem þín ordin bjóda.
Æ lát, Jesú! anda þinn oss leida,
í oss frid og kærleikann tilreida;

øll vor til þess umgeingni þér líki,
sem undirgéfnum ber í þínu ríki;
farsæld þá og fægnud sannann hreppum,
ef frá oss aldrei þínum kjærleik sleppum;
hann oss veitir hughraustum ad strída
og hjálpar þinnar fullvissum ad bída;
uns vér lóks, nær æfi stundlig dvínar,
innleidumst í fridar hallir þínar;
þá munum vér heidrun góda gjalda,
Gud vor! þér, um allar aldir alda!

Amen!

---

## Sja, á Pridjudag.

Ómetanlig er þín nád, vor Fadir!
ómetanligt hvad vor tilkostadir,
fyrst í sköpun, framar í vidhaldi,
fáum vér þad gjørvallt metid aldrei;
þarnæst í því, sem allt yfirtekur,
og í oss heita þacklátsemi vekur:
nær miskunar vildir oss þinn vilja,
veita rétt í Jesú Christó skilja;
hvørsu þú oss blessun þína býdur,
og brotliga med þolinmædi umlídur;
ad vér hølpnir verdum allir villtu,
vilja þennann, Drottinn! á oss fylltu.
Lát oss trúna lifandi vardveita,
léna oss eptir þínum ordum breyta;

samvizkuna svo vér ølum hreina,
sivakandi, hvad sem hljótum reyna;
medlætid þá mun oss ecki villa,
mótlætid ei óþolgædi fylla;
allt svo verdur oss til lycka ad gódu,
af því fylgjum Jesú, vorum bródur,
einn sem lífid oss afrekad hefur,
og anda sinn til pants þaruppá géfur,
því skulum vér þig og hann tilbidja,
þína dýrkun hér og sídar ydja!
Amen!

---

## 4da, á Midvikudag.

Drottinn Gud! vér andvørpum nú allir
upp til þín, med bænar heitu' ákalli,
allir jafnt í einum hug samtaka,
allir sem ad stunda bidja og vaka;
géf oss øllum gott þad er og heitir
af gjædsku þinni, hvør sér aldrei breytir,
til lífs og sálar, lík sem þørfin krefur,
líkasem þú híngadtil gjørt hefur.
Dagligu med Braudi þú oss blessa,
blessun þína lát oss styrkja og hressa;
gef þú oss med glødu hjarta ad vinna,
og gjædsku þína í øllum kjørum finna,
ánægdir þó eitthvad blási móti,
og naudstøddum til ad hjálpa fljótir;

svo vor trúin sér med verkum lýsi,
sem þig, Guð! í kjærleikanum prísi.
Oss lát jafnan ad því gá og hyggja,
ad á jørdu ei lengi skulum byggja,
en ástunda það eina naudsynliga,
alltíd þartil geyma lund ótrega;
svoleidis vér sanna gæfu hljótum,
sáttmálann ef vid þig ecki brjótum;
loks á himnum fulla sælu fáum,
fyrir þinn Son, hvørs dýrdar skodun þráum.

Amen!

---

## 5ta, á Fimtudag.

Bljúgum med og bøli mæddum anda,
bidjum vér þig, Drottinn Gud! ad vanda,
syndugum er mønnum miskun veitir,
og mildilíga vid þá jafnan breytir.
Æ vér játum allar vorar Syndir,
ad vér høfum rétt sem værum blindir,
anad fram á uggaleysis vegi,
yfir oss svo þína reidi dregid;
gleymt ad virda gjædsku nádar þinnar,
er gafst þú oss í Jesú Christó finna;
fyrir hans sakir Fyrirgéf oss øllum,
framda glæpi, sem nú til þín køllum!
æ, vor Fadir! ástand vart þú þeckir,
allopt hvørsu spillíngin oss bleckir;

ó hvad litinn optast høfum vilja,
og kappsmuni vid þad ránga ad skilja;
einnig brestur árædid ad strída,
allteins líka stødduglyndi ad hlýda.
Vorkéndu nú vanmáttinn, ó Herra!
en vondsku hjartans láttú sífeldt þverra;
géf oss vilja og vidleitni þess góda,
verkadú trúna kjærleikans med gróda;
legg oss, Jesú! líknarmál til hlýtar,
lát þinn anda dád og krapti býta;
spor þín sídan géf þú oss ad gánga,
góds þeim unna, sem ad breytni ránga
ydkad hafa oss og þér á móti,
en audsýna þeim mannelskunnar hótin;
svo merki trúar mættum á oss bera,
um miskun þína svo fulltrúa ad vera.
Amen!

---

## 6ta, á Føstudag.

Gud trúfasti! Gud vor Fadir blídi!
géf oss hjarta, sem þér fúsast hlýdi;
hjarta sem þig hyllist medur yndi,
hjarta, sem ei Freistni stáklig blindi.
Lát oss ecki af lastadæmum tælast,
lát oss ecki óvinina fælast,
heldur móti heimi og glæpum strída,
hvad sem vér þarfyrir kynnum lída;

aldrei heldur um það efast géta,
að øll þín stjórn er vís og góð að meta;
já að allir eru þínir vegir
af æðstu náð og trygðum dægiligir.
Slíkt vér eigum þínum Syni að þacka,
þá oss fyrir, dauðann gjørði smacka.
Leið þú oss með ljósi þínu og anda
lífsins veg, í gégnum allann vanda.
Kénn oss heiminn kunna rétt að brúka,
krossinn bera með þollyndið mjúka.
Styð þú oss í stríði øllu og mæðum,
að stunda réttum lífsins eptir gæðum;
svo vér trúna sanna varðveitt fáum,
samvizkunnar jafnan líka gáum.
Freistíngarnar þóað þúsund þjaki,
þeim á móti sálin biðji og vaki;
lokksins veit oss sannkristinna í safni
sigurinn, í Jesú Christí nafni!
Amen!

---

## 7unda, á Laugardag.

Herra Guð! þér heiðrun allir gjaldi,
hjálp vor stendur øll í þínu valdi;
þánki slíkur sálu vorri svalar,
svo hún þannig grátbænandi talar:
miklaðu á oss máttinn gjæðsku þinnar,
að mættum jafnan athvarf hjá þér finna!

Frelsadu oss frá øllu því hinu illa,
øllu því sem megnar oss ad spilla;
veldur syndin vondum øllum kjørum
vardveit oss því best frá hennar snørum;
lát oss ødlast luckn nádar sanna,
til lífs og sálar, hvad sem verdum kanna;
géf oss vitsku ad gánga fram í heimi
grandvarliga, í sæld og lífs andstreymi,
engann hneixla, engum skada gjøra,
ætíd vardhald samvizkunnar bera,
hún er þad sem hvørjum mest áríður,
hún er þad sem gledur mest og svídur;
hafi-fleckan hennar ollad módi,
hreinsadu hana þá med Jesú blódi!
Lát þinn anda vitni bera vorum
vér ad fylgjum Jesú dygda sporum;
øruggir svo mættum lifa og líða,
líka vorrar daudastundar bída;
hédan loksins frelsadir svo fara,
í fagrann sælu- og dýrdar-vistar skara.
Oss bænheyr, sem øllum hlutum stjórnar!
Amen! segdu, vegna Jesú fórnar!

Amen!

# Sálmar
út af
# Sjö Ordum Christs á Krossinum.

Allir undir Laginu: Jesú! þín minning mjøg sæt er; edur hvørju ødru Hymnalagi, sem vill.

---

## 1ti Sálmur.

Ypparsti Prestur, ó Jesú! á krossinum nær píndist þú, óvinum sýndir elsku og trú; addáanlig var nádin sú!

Dýrustu fórn þú frambarst þar, fórn sú þitt blód og daudi var; offradir tárum audmýktar, øllum heimi til blessunar.

Fyrir þeim badst, er þjádu þig, þín adferd, Jesú! huggar mig; veit eg ad ást þín innilig, aldrei því gétur dulid sig.

Géf þú ad dæmi dýrast þitt, dragi svo til sín hjartad mitt, gódfús ad ødrum géfi kvitt, gljúpir sem brotid þeckja sitt!

Flý eg vesæll ad fótum þín, Frelsari gódur! lít til mín; ángradri minni sálu sýn, svoddan miskun, er aldrei dvín!

Bid þú þinn Fødur fyrir mér, fullvíss er eg hann gégnir þér; verdkaup þíns dauda eylíft er, øllum til góds þad nota sér.

Ef mér þín veitist gjæðskan greið, gjøri' eg þá eingri kvíða neyð; æfinnar þreyti áfram skeið, óhræddur bæði' í lífi' og deyð.

## 2at Sálmur.

Móður þína, sem minntist á, mædd er stóð þinum krossi hjá, og henni gjørdir forsvar fá, þó framar ei kynni' þig að sjá.

Láttu mig forsvar finna þitt, Frelsari kjær! þá lífið mitt, verður af dauðans stormi stytt, stórsyndugum ei frá þér hrytt!

Aðstoð þegar að eingi mann, í andláti mínu veita kann, leiddu mig þá í lífsins rann sem líf þitt og dauði mér ávann!

Fyrir dómi þíns Føðurs þá, forsvar mitt taktu þig uppá; svo mun ei løgmáls svipan slá, sekann mig honum burtu frá.

Ei bið eg þessa einum mér; øllum það sama veittu hér! Miskun þín ecki' í manngrein fer; um mannkynið gjørvallt annt er þér.

Gjør við líkamann það sem' þú, þeckir mér hollast vera nú, fyrir minn anda; óskin sú — allrabest svarar minni trú.

Fel eg mig svo þitt forsvar í, Frelsarinn Jesú! forga=frí; þó yfir mig dragist dauðans ský, dapur eg ecki kvíði því!

## 3ji Sálmur.

Þú sem ræníngjans yðrun á, og hans bæn vildir

heyra og sjá, seint þó hún kæmi sekum frá, sem var þér, Jesú! náðin hjá.

Þegar yðranin 'er svo hrein, einsog þú vilt á hvörja grein, aldrei hún verdur um of sein, öll gétur sefað hjartans mein.

Samt þessu trausti eingann í, undan lát draga betrun, því — forherdíng þaraf flýtur ný, þá fyrir oss glepja daudans ský!

Vek til yðrunar seka sál, sérhvörja þá, er glæpa tál, dregur á skrefin heljar hál; svo hrapi ei neinn í Vítis bál!

O Jesú! láttu Anda þinn, uppvekja dofinn þánka minn, að eg hugleiði sérhvört sinn, að sé mér nálægur dómurinn.

Þegar eg hrópa í hrygð til þín, hlaðinn af synda megnri pín; Drottinn Jesú! þá minnstu mín, af meðaumkun þinni vægð mér sýn!

Í þínu ríki unn þú mér, að eylífu hjá að lifa þér; með þeirri von eg feiginn fer, frá þessum heimi, líf nær þver!

## 4ði Sálmur.

Yfirgéfðu mig, ó Jésú! aldrei fyrst soddann reyndir þú — af þínum Föður; auk mér trú, ásjónu þinni til mín snú!

Yfirgéf ei, lát ecki mig, af uggaleysi, sjálfan þig; hald mér á réttum himna-stig, hér þó sé freistíng ýmislig!

Viljirðu reyna trúartraust, til þín hvört stendur

efalaust; þína láttu mig þeckja raust, þaraf gjørist min vonin hraust.

Í stormi freistínga styrk mér veit, stodadu mig, svo bænin heit, haldi sér fast í hjartans reit; hjálpin þá kémur víst í leit!

Alla menn, sem í ángurs pín, ó Herra Jesú! leita þín, endurnær þá og svølun sýn, sólin þegar ad lokfins skín!

Øllum deyendum auktu trú, efasemd burtu frá þeim snú; í þínu ríki bygd þeim bú; bregdist ei nockrum vonin sú!

Þinni láttu oss þreifa á nád, þegar ad dauda-stundin brád, yfir oss kémur; drýgi dád, Drottinn Jesú! þitt hjálpar ráð!

## 5ti Sálmur.

Nær eg hugleidi þorsta þann, þig sem á krossi plága vann, Herra Jesú! mitt hjarta kann, hryggjast og gledjast jafnt vid hann.

Hrygd eykur hjarta mínu þad, hvørsu sárheitt þad písla bad, var, sem eg hafdi verdskuldad, væri ei pína þín í minn stad.

Aldrei hefdi' eg um eylífd þá, einn svaladropa kunnad fá, heldur mátt reyna þorsta þrá, hvílíka, sem þú kéndir á.

Huggan sú aptur hressir mig, í hef eg í vændum fyrir þig, eylífdar gjædi yndislig, eptir þessa heims mædu-stig.

Æ ad mig þyrsti eptir þér, allar stundir í heimi

hér; sannvíss þá yrdi svølun mér, í sælunnar stad, hvar býrdin er.

Velgja lát mig vid vamma dryck, sem veraldar sona býdur skick; mér burt úr þeirra møskvum ryck, mínum anda þinn vilja' innþryck!

Þá skal mér alltíd súrt og sætt, er sendir þú, vera jafndýrmætt, allt mun því verda bølid bætt, í borg útvaldra, þá líf er hætt.

## 6ti Sálmur.

Fullkomin er nú frelsan gód, fyrir þitt, Jesú! verkud blód; ó ad þess nyti øll heims þjód, eingann so Vítis hremmdi glód!

Géf oss þinn Anda' ad gjæta ad því, ad gétur einginn þeim kjørum í, hlutdeild eylífa feingid frí, fyrst nema' hann verdi sképna ný!

Sáttmáli nádar sá var hér, af sjálfum stadfest-ur, Jesú! þér: ad ydran og trú ef undanfer, eylíf þá sæla búin er.

Fullkomid er þitt frelsisrád, fullkomna þad oss veitir nád, ef vér svo fáum þad rétt þád, ad þad géti vora synd afmád.

Frá þinni sídu er fullkomnad, hvad Fødur þíns løgmál hátt ákvad, en Evangelíum eptir þad, áskildi trú í verka stad.

Vanti nú hana og viljann med, ad veita þér hlýdni og þacklátt géd, fullkominn þó sé fyrir oss Kéd, fær hún samt ecki lífid téd.

Fullkomni Kóngur fridar þú, fullkomna veit mér

á þig trú, lokfins réttlæti svo mig sú, þó síst géti, eg lögmál uppfyllt nú!

## 7di Sálmur.

Frelsari! sem í Föðurs hönd, fólst í dauðanum þína önd, sunðurslíttu mín synda-bönd, svo mig ei dauðans hremmi grönd!

Öndu mína þér einum fel, yfir nær geisar dauðans jel; henni svo loks mun vegna vel; velkomið þá, sem líf, er hel.

Dauðann með dauða deyddann fékkst, dóminn lögmáls nær undirgékkst, og kvalinn á þínum krossi hékkst; kvitt er því synd, ef ydran tekst.

Undir þinn kross eg feiginn flý, fram þegar brjótast dauðans ský; þar mun mér bætast náðin ný, af nauðum öllum svo verð eg frí.

Blossar Guðs reiði bugast þar, og bannfæring lögmáls hótunar; Djöfullinn fær þá drjúgt afsvar; dauðinn sér ekki megnar þar.

Komi því dauðans kalda nótt, komi hún, ef þér geðjast, fljótt; verður mér eflaust vært og rótt, ef veitir þú sálu trúar-þrótt.

Breiddu þá faðminn móti mér, mildasti Jesú! treysti' eg þér; mig fyrir sálar voða ver, veröld þegar eg kveðja fer!

# Bænir

## útaf framanskrifudum sjö Sálmum.

---

### 1sta Bæn.

O þú eylífi Endurlausnari, Herra Jesú! í hærsta máta addáanlig var elska sú og trygd, er þú audsýndir óvinum þínum, nær þú píndist á krossinum á Golgatha. Sem ypparsti Prestur frambarst þú þar hina allradýrmætustu fórn fyrir þeirra og alls heimsins syndir. Hvør fórn falin var í úthellíngu þíns heilaga blóds, samt allri þinni bitru pínu og dauda; þú offradir líka opt í lífi þínu öflugu kalli og táraföllum fyrir þínum himneska Födur, til blessunar öllu syndugu mannkyni. Paradauki badst þú sérilagi fyrir þeim, er kvöldu þig; og sú þín breytni, ó Jesú! er mér til stærstu huggunar; því þar útaf er eg fullviss um, ad þín guddómlig elska gétur aldrei synjad neinum þeim nádar, er hennar leita, þar þú badst um nád fyrir þá, sem hennar ecki leitudu. Géf þú mér annars, ad þetta dæmi þitt hafi þá verkun í hjarta mínu, ad eg gódfúsliga fyrirgéfi ad sönnu öllum, sem mér rángt til gjöra, en þó einkum þeim, er bljúgir kannast vid yfirsjón sína.

Nú flý eg — svo vesæll sem eg er — ad fótum þínum í anda, minn ástkjæri Frelsari! Æ virdstu í nád þinni til mín ad líta, og audsýna minni ángurbitinni sálu miskun þá, sem eylífliga varir! Æ bid þú þinn himneska Födur fyrir mér óverdugum; því eg er fulltrúa um, ad hann heyrir þína fyrirbón; þar verdkaup þíns fórnardauda, er þú mín vegna leidst, hefur eitt óendanligt og eylíft gildi; hvørs þeir allir njóta, sem þad sér, med trúnni á þig, réttiliga í nyt

færa. Verdi eg nú, sem eg vona, um þetta af gjædsku þinni bænheyrdur, þá þarf eg aldeilis eingri neyd framar ad kvída, heldur gét áfram skundad æfiskeid mitt í voninni og trúnni, óhræddur fyrir øllum mínum sálar-óvinum og øllu illu, bædi í lífi og dauda. Bænheyr mig því um þetta, minn blessadi Medalgángari! vegna þinnar forþénustu! Amen!

## Lur Bæn.

O þú ástúdligasti Frelsari! þú sem blódi storkinn og benjum þakinn hángandi á krossinum, mundir þó til módur þinnar, er ángri þrúngin undir hønum stód, og ánafnadir henni jardneskann forsvarsmann í þinn stad, þar hún gat þá ei framar feingid þig ad sjá, edur hjá þér ad vera, á líkamliga vísu, í þessum heimi; æ, láttu mig ogsvo finna forsvar og athvarf hjá þér, þegar daudans stormur nidurbrýtur lokfins þetta mitt líkama hreysi; vísadu mér þá ecki frá þér forsvarslausum, þó eg stórsyndari sé í þínu heilaga augliti. Og þegar einginn madur gétur, þó vilji, í andláti mínu bjargad mér, svo eg líka sem húsvilltur fer úr heimi þessum, leiddu mig þá, fyrir þitt ord og anda, í eylífa dýrdar bústadi, þar ed þú, med lífi þínu, lídun og dauda, hefur keypt mér þá vistarveru til handa. Þegar eg svo, skilinn vid líf þetta, kém fyrir dómstól þíns Fødurs, æ taktu þá mál mitt ad þér, og forsvaradu mig sekann; þá mun hann ecki, med svipu síns heil. løgmáls, þó eg þad þúsundsinnum yfirtrodid hafi, hrekja mig í burtu frá sínu augliti, ad eylífu. Um þetta bid eg þig, Drottinn minn! ecki einasta sjálfs mín vegna, heldur og allra manna; því þar þú alla jafnt endurleyst hefur, og eg veit ad miskun fer ecki í manngreinar álit, þá viltu líka ad allir verdi sáluhólpnir og til sannleikans vidurkénningar komist. En hvad líkama minn og hans hagi snertir, þá bid eg þig ad eins, ad þú gjørir þad vid

hann, sem þú sér sálu minni hollast vera; hvørt heldur það færir með sér meðlæti edur mótlæti, líf edur dauða; því sú bæn svarar best þeirri reglu, eptir hvørri þú hefur kénnt mér að trúa og biðja. Svo fel eg mig þá, ó Jesú! óhultur í þitt náðarforsvar meðan eg lifi, og þarf heldur eingu fyrir mér að kvíða, þó eg deyi; þegar eg að eins dey í lifandi trú á þig, sannri von og hreinum kjærleika. O veit mér þetta og øllum oss, Herra Jesú! af þinni náð! Amen!

## 3ja Bæn.

O Jesú! þú sem vyrdtist að géfa gaum að ydrun og bæn þess vesæla ræníngja, þó hún kæmi seint fram hjá þessari dauðaseku mannsképnu, þá var þín náð ein og hin sama við hann, fyrir það. Sé eg því af þessu dæmi, að ydranin, sé hún annars að øllu leiti svo hrein og einlæg, sem þú í orði þínu áskilið hefur, verdur aldrei af þér forsmáð, þó síðla framkomi; heldur dugir hún eins vel, sem hún fyrri hefdi framin verið, til að friðstilla samvitskuna, og veita manni inngaungu í eylíft líf. Forða því samt, ó Herra! að einginn í þessu trausti undandragi ydrun sína, því það hafði ræninginn ecki gjørt; svo forherdíng þeirra, sem það gjøra, verdur þá, við dauðans aðkomu, stærri enn hans var, og þessvegna ydrun þeirra lángt torveldari. Æ, uppvek því, með orði þínu, til sannrar ydrunar, sérhvørja þá sálu sem í syndunum sefur, og anar samvitskulaust fram á glæpanna vegi; svo, ef møguligt er, að einginn af slíkum fortapist eylífliga. Æ, minn góði Jesú! láttu þinn Anda ogsvo upptendra mitt dofna hugskot til sannrar ydrunar í tíma; og géf mér sífeldliga fyrir augum að hafa, hvørsu dauði og dómur kunna þá og þá nálægir að vera, svo eg vel undirbúinn sé móti þeim að taka, á hvørri stundu. En þegar eg

þá, af þér til ydrundr uppvakinn, hryggist alvarliga út af syndum mínum, og þúngi þeirra liggur sem mest á samvitsku minni, svo eg hrópa til þín sárgrætiliga um náð og fyrirgéfníngu, æ minnstu mín þá, Drottinn minn! einsog þess ydrandi ræníngja; séndu í brjósti um mig, og vertu mér miskunsamur og náðugur! Unn mér síðan, nær eg skilinn er við líf þetta, eylífliga í þínu dýrdarríki með þér að vera! Nær þú nú fyllir hjarta mitt með þessari von og vissu, gét eg feiginn og gladur farið burt úr heimi þessum, því eg veit mín augu fá þá að sjá þitt hjálpræði að eylífu. Uppfyll, ó Jesú! þessa mína bæn, trú og von, eptir þínum fyrirheitum! Amen!

## 4da Bæn.

O minn Jesú! þú sem á krossinum reyndir það, að vera yfirgéfinn af þínum himneska Føður; láttu mig aldrei þurfa að reyna það sama af sjálfum þér til; því þú gétur nærri, hvað sárt það er, að verða að sjá þér á bak, þegar maður í hørmúngirini leitar þín. Auk mér þessvegna sanna og lifandi trú á þig, og snúdu að mér þínu blessaða náðar augliti, bæði í lífi og dauða! En lát mig sjálfan heldur aldrei í ydrunarleysi yfirgéfa þig, því það er vissasti vegur til eylífrar gløtunar; greið heldur fætur mína á þann rétta friðar veg til himnaríkis, enda þó margfaldar freistíngar vilji í þessum heimi fyrir mér villa! Þókniſt þér með nockru að reyna hvørsu stadføst og óhvikul mín trú á þig sé, þá lát mig, midt í þeirri reynslu, út af orði þínu, þeckja þína náðar-raustu, því þá mun mín von og trú á þig óbilandi verða! En þegar stormur slíkra freistínga er ofurmegn, hjálpaðu mér þá til þess, að mig samt aldrei bresti bænina, heldur veit að hún sífeldt sé rótgróin í hjarta mínu, því þá mun hjálpin frá þér vissuliga koma á hentugasta tíma! Á lít þú, Herra Jesú! til allra

þeirra manneskja, hvar sem helst eru, sem, plágadir af ángri synda sinna, leita þinnar miskunar; endurnærdu þá og svaladu sálum þeirra, eptir þad formyrkvan hörmúnganna er afstadin, og sól þinnar nádar tekur aptur ad nýu ad breida út sína blessudu geisla, vid'íkt einsog fram vid þig kom í pínu þinni! Efl þú lif indi trú hjá öllum þeim, sem vid daudann berjast, og lát ecki ofmikla efasemi yfirfalla þá; veittu þeim sídan vistarveru í þínu dýrdarríki, og lát ecki þá von bregdast neinum, sem gjöra sér hana réttiliga, uppá þín evangelisku nádarfyrirheit. O lát oss alla rétt sem þreifa á þinni nád, en þó einkum á vorri daudastundu; og gef oss þá, ó Jesú! ad þitt dýrmæta Endurlausnarverk verdi vort lífatkér! þá forgaungum vér aldrei, hvörsu háreistir sem daudans brimöldar verda kunna. Opna þín miskunar eyru fyrir þessari vorri hjartans bæn! Amen!

## 5ta Bæn.

Nær eg, Herra Jesú! hugsa um þann sára þorsta, er þig á krossinum plágadi, þá getur tilhugsanin sú jafnmikid hryggt hjarta mitt, sem gladt þad; jafnmikid gladt þad, sem hryggt. Þad getur víst aukid hjarta mínu þúnga hrygd, þegar eg íminda mér, út af þorsta þínum, hvörsu heitt þad píslabad ordid hefdi, er, eptir þínum réttlætis dómi, makliga hefdi átt fyrir mér ad liggja, í ad steikjast eylífliga, hefdir þú ecki, í minn stad, slíka óbæriliga pínu lidid. Þá hefdi eg aldrei ad eylífu feingid ad smacka einn svolunardropa, heldur hlotid ad plágast af þeim brennanda þorsta endalaust, sem hér um stundarsakir mæddi þína blessudu túngu. En þegar eg aptur ámóti hugsa til þess, ad þú leidst þessa þína pínu, svo vel sem allt annad, mín vegna, þá hughreystir sú von mig, ad eg, þegar þetta líf er á enda kljád, á, sökum þinnar forþénustu, í vændum, ecki einasta ad frelsast frá öllum kvala

þorsta, heldur hvert ámóti ad bryckjast af vellystinga straumum þíns dýrdar húss, ád eylífu. En þess óska eg mér af hjarta, Herra! ad mig alla tíma, svo leingi eg í þessum heimi lifi, gjæti eptir þér og þinni nad réttiliga þyrst, því þá mætti eg vera öldúngis fullviss um, ad sá minn þorsti feingi fullkomnustu svølun ad lyktum, í dýrdligum sælu bústødum allra útvaldra. Nú gétur þessi þorsti eptir þér ecki sannur verid, nema mig alvarliga taki ádur, hér í heimi, ad velgja vid ádryckju heimsins barna, sem full er af banvænu lastanna eytri; æ lát mig þessvegna ecki ínetjast þeirra tælíngum, heldur slít þeirra bønd af mér, svo þaug mér ecki faungnum haldi; en innræt anda mínum þinn Guddómligan vilja, svo eg hann sífeldt mér fyrir augum hafi. Ef eg nú þvílíkt sinnislag ødlast, þá munu allar þínar rádstafanir, hvørt sem þær holdinu súrar edur sætar finnast, verda mér jafnkjærar og dýrmætar; af því eg er þá sannfærdur um, ad allt lífsins bøl, andligt sem líkamligt, verdur mér ad fullu bætt, eptir daudann, í þeirri himnesku Jerúsalem, hvar enga synd, sorg né dauda framar verdur ad finna. Bænheyr mig um þetta, blessadi Jesú! vegna þinnar dýrdar og dygdar! Amen!

## 6ta Bæn.

Þad er aldeilis fullvíst, Herra Jesú! einsog þú á krossinum lýstir, ad fullkomid frelsi er øllum heimi, fyrir þína pínu og dauda, afrekad; og — ó ad sú ósk mætti standast! — ad allar heimsins þjódir, allir Adams nidjar, aldir og óbornir, gjætu þess notid, svo einginn þeirra þyrfti, eins eptir sem ádur, í eylífar vistir, fyrir sínar syndir, útsnaradur ad verda. En af því nú þetta gétur ecki fortakslaust skéd, þá géf oss, Herra! Anda þinn til þess, ad vér gjætum ad því, ad eptir þíns nádar-sáttmála náttúru, gétur einginn þeirra heilla notid, sem þú, med þinni pínu og dauda

himninum afrekad hefur, nema hann, fyrst hér í lífi, gjörist, fyrir Endurfædínguna, ný skèpna; því þetta er inntak og undirstada sáttmálans, sem þú sjálfur, Herra Jesú! samdir og stadfestir millum vor og þíns himneska Födurs; þessi nefniliga: ad ef ydrun fyrir syndirnar, og lifandi trú á þína fridþægíngu geingur á undan í þessu lífi, þá er oss, en annars ecki, heitid eylífri sælu annars heims. Þessvegna, þó Frelsi þad, sem þú, Jesú! veitt hefur, sé í sjálfu sér allfullkomid, og fullkomin nád af þíns Födurs hendi frambodin og til reidu, þá ridur samt allt á því, ad vér medtökum réttiliga þessa þína fullnægjugjörd, ef hún á oss til nota ad koma, og géta afplánad syndasekt vora. Þad er efalaust, ad frá þinni sídu hefur þú, Herra Jesú! allt Guds lögmál vor vegna uppfyllt, og þess kröfum fullnægt, þar oss var ordid þad hreint ómöguligt, eptir þad vér vorum af syndinni spilltir ordnir; en þitt heil. Evangelíum heimtar þá af oss, í þess stad, lifandi trú á þig og þína fridþægíngu. Vanti oss þessvegna hana, samt hreinskilinn vilja og vidleitni ad hlýdnast þér, eptir vorum veikum kröptum (þar í því er falid þad þacklæti, sem þú heimtar af oss fyrir þína fórnfæríngu); vanti oss þetta, segi eg, þá gétur ecki þín fridþægíng, svo fullkomin sem hún er, gagnad oss til eylífs lífs. O þú allfullkomni Kóngur eylífs fridar, Herra Jesú! veit mér þessvegna og öllum oss þvílíka trú á þig ad hafa, sem sönn og fullgild sé, svo hún verdi mér, af þínum Födur, til réttlætis reiknud, þó ecki hafi eg gétad, né géti hans heilaga lögmál, á nockurn hátt, uppfyllt. Veit mér og öllum oss þessa bæn, vor blessadi borgunarmadur; þú sem ert Drottinn vort réttlæti! Amen!

## 7da Bæn.

O minn Frelsari! sem sálu þína í daudanum fólst á hendur þínum himneska Födur; æ slíttu af sálu

minni, fyrir þinn Anda, syndanna fjøtur, svo sá annar daudi aldrei yfirfalli mig, þó eg, sem Adams barn, hljóti þeim nátúrliga dauda ad deya! Eg vil, minn Jesú! einsog Stephanus, fela þér á vald øndu mína í daudanum, hvørja þú, med þínum dauda, endurkeypt hefur; því hvørsu svart og ógurligt sem hans jel verda kann, má eg samt fullviss vera, ad henni muni ad eylífu vel vegna, og þá er mér allt eins velkominn daudinn sem lífid; því lifi eg, þá ertu Jesú mitt líf; en deyi eg, þá verdur daudinn minn ábáti. Þú slóst í hel daudann med dauda þínum, Drottinn minn! þegar þú á krossinum létst þann løgmálsins dóm yfir þig gánga: bølvadur sé, hvør sem á tré hángir! Fyrir þad er syndin afmáþ, (sem er daudans broddur, med hvørjum hann banar sálunum) ef vér gjørum svo sanna ydrun fyrir hana, sem ord þitt áskilur. Þessvegna vil eg, ad henni gjørdri, feiginn flýa undir þinn kross, þegar daudans skýflóki dregst yfir sálu mína; því þá mun mér, fyrir trúna á þig, ad mínum gømlu syndum í burtu teknum, tildæmast, vegna þinnar forþénustu, ný og fersk nád; og þá géta eingar sálar hørmúngar, mér til skada, framar yfir mig fallid. Blossar Guds reidi, sem brennur til helvítis yfir øllum ydrunarlausum, slokna þá hreint út; og løgmálsins bannfæríng, hvørja þú, minn Frelsari! borid hefur, verdur þá ad eingu; Djøfullinn, sem mig áklagar, og eptir Løgmálinu, hvørt eg hrædiliga brotid hefi, vill heimta mig út, sem sinn eigindóm, fær fullkomid afsvar, ad hann eingan rétt til mín hafi; þar eg, med trúnni, hefi tekid ad mér þitt réttlæti; og Daudinn, sem þú í sigúr svelgt hefur, orkar þá alls eingu. Komi þá daudans myrkur yfir mig, já komi þaug hastarliga, ef þú svo vilt, Herra Jesu! komi þaug! mín sálar værd og samvitsku rósemi þarf samt ekkért þarvid ad raskast, ef þú, á þeim tíma, veitir mér lifandi trúar styrkleika, á þína fridþægíngu. Æ breiddu þá þinn blessada blódfadm, gódi Jesú!

móti mér, einkum á minni dauda stundu! Eg set allt mitt traust einasta á þig! Vernda þú mig frá þeim voda, sem sálu minni grandad gétur, þegar eg á vid þessa veröldu ad skilja; svo henni, þó líkamans hreysi brotni, hólpid verdi, á landi lifendra eylífliga! Æ, heyrdu nú þessa mína bæn, Herra Jesú! og bænheyrdu hana þér til dýrdar, en mér til blessunar! Amen!

---

# Sjö Vers

## út af sjø Ordum Christs á krossinum.

**Med lag: Einn Herra eg best ætti,**
**edur: Allt eins og blómstrid eina.**

---

1 Vers. Jesú! er badst med blídu, blessadur fyrir þeim, sem þig, med sinni stridu, særdu i þessum heim; eins bid þú fyrir øllum, einkum þeim dýrdka þig, svo þeir í himna høllum, hreppi kjør yndislig!

2 Vers. Munadarlausri módur, miskun ei gleymdi þín, Jesú, minn blídi bródir! bú þú eins sálu mín, forsvar, þá fer hún hédan, fráskilin glæpa keim, svo hún þig fái sédan, sjálfan í betra heim!

3 Vers. Ræningjans sem ad seinu, sannri þó, ydrun tókst, Jesú! med ordi einu, øndu hans gledi jókst; mig lát í mínum dauda, miskun eins finna og hann, og frían af fári nauda, flytjast í himna rann!

4 Vers. O Jesú! ysirgéfinn, af þínum Födur varst; á því er einginn efinn, ad mínar syndir barst, sálu á sem líkama; síst yfirgéfur þú, nockurn í naudum framar, er nád hefur sannri trú!

5 Vers. Þig, Jesú! þyrsti forðum, þínum á krossi mjeg; svölun af sannleiks ordum, sem mæltir, hefi jeg; láttu mig þartil þyrsta, ad þjóna Gudi af trygd; flyttu mig svo hid fyrsta, í fridarins sælu bygd!

6 Vers. Fullkomnad fórdum sagdir, Frelsari minn! á kross, þegar þú líf útlagdir og leystir af sektum oss; fullkomna ydrun unntu, eg gjöri', af hjartans rót; fullkomna mér svo muntu, meddeila synda bót!

7 Vers. Þú fólst í Födurs hendur, Frelsarinn! sálu þín, úti þá var og endud, æfinnar mæda' og pín; svo taktu sálu mína, sæll Jesú! þér í hönd, nær slitnar lífsins lína, leys af mér synda bönd!

---

Sjø

# Viku-Sálmar og Bænir,

## til Frelsarans, út af hans pínu.

---

### 1ti Sálmur.

Jesú af hjarta' eg þacka þér, þinn dauda' og beiska pínu; hvørja þú leidst til líknar mér, á lifi manndóms þínu; svo ad þíns Fødurs feingi nád, þess fallna mannkyns brot afmád; ad óveikju veldi sínu.

O hvad sárbitur sút og kvøl, sálu magnadist þinni — í grasgardinum, svo vard ei vøl — á værd edur róseminni; blódugur sýndi sveitinn þad, sem af þér dundi' í tédum stad; allt til góds øndu minni.

Svo margar hafdi' eg syndir drýgt, í sálar fýsnum mínum, ad þín sála vard ad þola slíkt, í þaunkum og grunni sínum; fridþægíng er því feingin mér, Frelsari minn! ef treysti' eg þér, og hlýdnast ordum þínum.

Íhugan láttu ángurs þíns — eg svo Guds fridar njóti — hepta þá gledi hjarta míns, sem hjarta þín' er ámóti; láttu mig sorg af syndum þjá, svo eg þeim aldrei ginnist á; né heiløg þín bodord brjóti.

Uppvek þú, Drottinn! audmjúkt þel, og andagt í

mínu gédi, ad eg bidjandi vaki vel, sem vinum þín-
um tilrédir; í freistíngum géf mér trausta trú, til
míns dauda mig undirbú, svo eylífa' eg ødlist gledi!

## 1ta Bæn.

O Herra Jesú Christi! þú Sonur Guds! þú sem
í heiminn kominn ert, syndugа menn sáluhólpna ad
gjøra. Eg þacka þér af øllu hjarta, fyrir þína blód-
ugu pínu óg bitra dauda, sem þú leidst, svo vel mín,
sem allra Adams barna' vegna, til þess þinn himn-
eskur Fadir gjæti, ad óveiktu sínu herradæmi og
óskérdtu sínu løgmáli, tekid mig og alla þá syndara
til nádar, sem í sannri ydrun fyrir sínar yfirtrodslur,
og lifandi trú á þína fridþægíngu, hennar hjá hønum
leita. Sérilagi þacka eg þér fyrir þá sárgræt-
iligu kvøl, er þú leidst á þinni heiløgu sálu í gras-
gardinum Gethsemane, þegar þú, titrandi af hrædslu,
kvartadir yfir því, ad þín sála væri svo hrygg, ad
þú ætladir ad deya. Med þessari píslhefir þú séri-
lagi lidid og fridþægt fyrir allar þær óteljandi syndir
sálar minnar, er hún med saurugum girndum og
svívirdilígum þaunkum drýgt hefir móti þíns Føðurs
heilaga løgmáli, og þar sem í sálu minni er upp-
spretta alls þess illa, sem eg med ordum og verkum
drýgi og drýgt hefi alla æfi mína, hlýtur sú þín pína,
er fyrir þetta fridþægja skyldi, ad hafa verid hin allra
skélfiligasta; hvad líka sýndi sig á því, ad hún press-
adi út af þér blódugan sveita, og kom þér í þrjár

reisur til ad bidja þinn himneska Födur um nockra
vægd á henni. Æ, minn Herra! láttu nú íhugan
þessara þinna sálarkvala deyda í mér allar saurugar
girndir og syndugar ímindanir, og gjöra mér þær
viðbjódsligar; en apturámóti uppvekja þér til dýrdar
í hjarta mínu heilagar hræríngar, fullar af audmýkt
fyrir þér, kjærleika til þín, og laungun til góds og
gudligs lifnadar. Einkum géfdu mér, nær eg inn=
vortis edur útvortis freistast til ad syndga, ad hafa
stödugliga í minni advörun þá, sem þú gafst þínum
lærisveinum: ad vaka og bidja, svo eg falli
ecki í freistni! Ó, láttu þitt blessada krossins
ord verda ad því sædi í sálu minni, af hvörju spretti
trúin á þína fridþægíngu, vonin á þín fyrirheit og
kærleikurinn til allra þinna heilögu bodorda, svo eg
til míns dauda vel undirbúinn, mætti hjá þér eylífa
sælu og sálargledi finna. Bænheyr þad, Herra Jesú!
vegna allra þeirra sálar kvala, er þú fyrir mig lída
máttir. Amen!

Fadir vor rc. Drottinn blessi rc.

Vers: Fyrir þá písl, er þoldir þú, þjódum
til lausnar, minn Jesú! einkum fyrir þá ofur neyd,
ad þín í Gethsemane leid, veittu mér hjartans værd
og frid, í vöku og svefni, þess eg bid; einkum nær
skilst eg veröld vid!

---

þínum eiginn lærisveini svíkja, svikin
og fángadann frá einum ránglátum
rs hrekja. Þetta hefir þú minna
iljad, til ad bæta fyrir alla þá ótryg
vor eptir minni skírnar=skyldu vera á
igur lærisveinn — hefi þér leynt og
á fyrir þad, hvorsu eg hefi látid syndann
aka mig til fánga, og leida frá einu
nnars. Æ, minn Herra! svo hjartanlig
em eg njóta vil þinnar pínu, mér til fri
iá þínum himneska Födur, svo inniliga
d géfa mér nád þíns heilaga Anda til
hugan þinna fjörráda dempi nidur hjá
ræsni í þinni dýrdkun; íhugan þinna h
appsmuni ad slíta af mér öll fjötur syn
ondra girnda; og íhugan þíns hraknings n
ranna í Jerúsalem, verki stöduglyndi í þi
stu og eptirfylgd, allt til daudans. Já,
id eg þig, minn Herra Jesú! því inniligar
eit betur, ad nema eg þvílíkt hugarfar ödli
g gjörist hinn hreinskilinn dýrdkari, svo vel
rída ámóti syndinni, sem stunda eptir he
e eg ecki þinnar fridþægíngar notid. Æ
ína sálu med böndum þinnar elsku vid
ngar holds né heims tælíngar, eingar óg
stríður orki ad skilja mig frá þínum kærlei
ýrdkun og þinni eptirfylgd. Lát þinn heil
era minn leidtoga gégnum þessa veröldu, h
a, eymdin og daudinn líka sem hrekja m

## 2ar Sálmur.

Þakklæti' og lofgjörd þér eg á, þídasti Jesú greida, fyrir gjörvalla þjáníng þá, er þig loksins réd deyða — vegna mín; svo eg findist frí, frá Guðs réttlætis straffi því, syndirnar sem til leida.

Fángadur varst' af fjendum þín, og fjötrum þúngum reirdur; mektugir sídan milli sín — mordíngjar bundinn keyrdu; þetta leidstu sem þolugt lamb, þú svo fyrir mitt bættir dramb; hjartans ákall mitt heyrdu!

Bid eg ad minníng banda þín, bindi mitt hold óspaka, svo andanum takist ydja sín, í eptirfylgd þinni ad vaka. Stöduga lund og styrk mér géf, ad strída þartil eg unnid hef; ei lát mig ótrygd saka.

Af öllu hjarta' eg óska mér, Anda þíns hjálpar njóta, svo eg þín fótspor feti hér, en forðist athæfid ljóta. Bind þú med elsku böndum þín, blessadi Jesú! sálu mín; þá mun ei trú mín þrjóta.

Láttu svo hvörki líf né deyd, lucku né þjáníng skjæda, snúa mér réttri lífs af leid; léna mér styrk ad hræða, gégnum syndar og daudans dal, dýrdar inní þinn skjæra sal, til eylífra yndis gjæda.

## 2ur Bæn.

Lof og þackir séu þér, Herra Jesú, minn Endurlausnari! fyrir alla þína fridþægjandi pínu ysirhöfud; en þó sér í lagi fyrir þad, hvörsu þú létst þig

þínum eiginn lærisveini svíkja, svikinn til fánga taka, og fángadann frá einum ránglátum dómara til annars hrekja. Þetta hefir þú minna vegna allt líða viljad, til ad bæta fyrir alla þá ótrygd, sem eg — hvor eptir minni skírnar-skyldu vera átti þinn andligur lærisveinn — hefi þér leynt og ljóst sýnda; já fyrir þad, hvörsu eg hefi látid syndanna tillockanir taka mig til fánga, og leida frá einu ránglæti til annars. Æ, minn Herra! svo hjartanliga feginn, sem eg njóta vil þinnar pínu, mér til fridþægíngar, hjá þínum himneska Födur, svo inniliga bid eg þig ad géfa mér nád þíns heilaga Anda til þess, ad íhugan þinna fjörráda dempi nidur hjá mér alla hræsni í þinni dýrdkun; íhugan þinna banda auki kappsmuni ad slíta af mér öll fjötur syndanna og vondra girnda; og íhugan þíns hraknings milli dómaranna í Jerúsalem, verki stödugllyndi í þinni þjónustu og eptirfylgd, allt til daudans. Já, um þetta bid eg þig, minn Herra Jesú! því inniligar, sem eg veit betur, ad nema eg þvílíkt hugarfar öblist, nema eg gjörist hinn hreinskilinn dýrdkari, svo vel í því ad strída ámóti syndinni, sem stunda eptir helguninni, fæ eg ecki þinnar fridþægíngar notid. Æ bind þú mína sálu med böndum þinnar elsku vid þig, svo eingar holds né heims tælingar, eingar ógnanir né ofsóknir orki ad skilja mig frá þínum kjærleika, þinni dýrdkun og þinni eptirfylgd. Lát þinn heilaga Anda vera minn leidtoga gégnum þessa veröldu, hvar syndin, eymdin og daudinn líka sem hrekja manneskjur

milli sín, svo eg luckuliga komist géti inní þann betri heim, hvar réttlætid, sælan og lífid eylífliga blómgast. Vardveit trú mína stöduga og lát hana ecki þrotna, inn til þess eg fæ þitt frelsi fullkomliga þeckt, og þess med öllum útvöldum óhindradur notid, í þeirri himnesku Jerúsalem eylífliga. Bænheyr mig, Herra Jesú! vegna þeirra vægdarlausu písla, sem þú í minn stad lidid hefir! Æ, bænheyr mig, svo skal eg ad eylífu lofa þig! Amen. Fadir vor 2c.

Vers: Jesú! fyrir þín blódug bönd, bíd eg af minni greidir önd, lögmáls fjötur og lastahnút; leid mig úr synda myrkrum út, eptirkomandi og alla tíd, audnist mér nádar vernd þín blíd. Færist þér lofgjörd fyrr og síd!

---

## 3ji Sálmur.

Ennþá ad nýu eg inni þér, ó Jesú! þackir frómar, fyrir písl þína, og þad sem mér, þarmed gjördir til sóma. Farsæld af henni flýtur mín, fridþæging, traust og von til þín; samt heill á degi dóma.

Dómssakir á þig, Drottinn minn! djarfir fallsvottar sóru, aldeilis hvörjar á mig finn, andliga sannar vóru; en þú leidst fyrir allan heim, eg svo kvittadist hreint af þeim, samt þeirra straffi stóru.

Aldrei lát mig nú eptirdags, uppreisn þér mig

gjöra; kénn mér í öllu leita lags, lögum þín hlýdinn vera; ödrum á rèttan vísa veg, svo verdi med þeim einn talinn eg, er trúar ávöxt bera.

O þú sann-nefndi Sonur Guds! sonarrètt géf mér hljóta, undirrót er þad alfögnuds, í eylífu lífi ad njóta; sálar minnar þig konúng kýs, kémst eg þá inn í Paradís; gledin mun þar ei þrjóta.

Þegar þú, Drottinn! dæmir heim, nær dagar ver-aldar linna; æ lát mig verda einn af þeim, sem ey-lífa sælu finna; fyrir þinn stránga dauda dóm, dæm-du mér til med nádar róm, blessanir barna þinna!

## 3ja Bæn.

Hjartanligustu þackir seigi eg þér, minn ljúfi Lausnari, Jesú Christi! fyrir allt þad, sem þú minna og alls heimsins synda vegna, á tíma þinnar pínu, lidid hefir; því þarí er mitt sanna og fullgilda lausn-argjald og rèttlæti fólgid. Þú varst mín vegna, fyrir lognar sakir, af þínum fjandmönnum ákærdur, svo eg þín vegna yrdi ecki, fyrir sannar sakir, móti þíns Födurs lögmáli, eylífliga fordæmdur. Þér var kénnt um, ad þú frásnérir fólkinu, því eg hafdi svo opt snúid mér frá Gudi, til hans óvina; ad þú fyrirbydir ad géfa keysaranum skatt, af því eg hafdi svo þrátt synjad Gudi um skatt minnar skyldugu hlýdni; ad þú segdir þig ad vera konúnginn Krist, af því eg svo tídum hafdi, med syndum mínum, uppreisn gjört móti konúngi himins og jardar. Þú

varst af øllu því stóra rádi í Jerúsalem, og sjálfum þeim ædsta presti, dauda makligur dæmdur, fyrir þad þú játadir þig Guds Son ad vera, af því eg, og adrir mínir samsyndarar, høfum svo hrædiliga af oss brotid þann rétt, ad heita børn lifanda Guds. Æ, Herra Jesú, minn ædsti prestur og talsmadur! veit mér, ad allar sakir þíns dauda, sem eru syndir mínar, verdi mér fyrirgéfnar, og láttu Guds, þíns himneska Fødurs, heilaga løgmál, ecki géta fordæmt mig fyrir þær ad eylífu. En géf mér þó jafnframmt, medan eg lifi hér í heimi, nád þíns heil. Anda til þess, ad eg af fremstá mætti mótistrídi øllu því, og øllum þeim, sem mér vilja frá trúnni á þína fridþægíngu snúa; en þarámóti kapps um kosti, ad snúa sem flestum eg gét til þinnar dýrdkunar; og sjálfur þannig gjaldi Gudi, út af trúnni á þig, skatt viljugrar og sonarligrar hlýdni, midt í því eg, af hreinskilnu hjarta, hylli þig fyrir konúng sálar minnar; svo eg verda mætti þín vegna, sannarligt barn þíns himneska Fødurs, hvørju, í krapti þíns mér géfna forþénustu réttlætis, tildæmd verdi eylíf vistarvera í þínu kóngsriki á himnum. Bænheyr mig, Herra Jesú! og haldtu mínu máli til sigurs fyrir augliti þíns Fødurs, svo hann láti mig njóta þess, ad einginn mælti þér málsbót, þegar þú mín vegna fordæmdur varst! Þarfyrir skal eg þá lofa þig og hann eylífliga! Amen. Fadir vor &c.

Vers: Sakfeldur med því saklaus varst, syndir veraldar þegar barst, Jesú! því taktu málstad minn,

mér til líknar, vid Födur þinn. Søkum þú øllum svipt af mér, svo eg þá tíd, sem eptir fer, óhultur lifi í heimi hér!

---

## 4di Sálmur.

O! ad eg gjæti af innstu rót, einsog mín skylda krefur, þér, Jesú! vottad þackar hót, þér — sem mig frelsad hefur, med þinni pín' og dýrum deyd, frá daudanum, synd og allri neyd, já himneska heimvon géfur.

Þú sem á himnum heidrun best, af heiløgum þiggur skara, hádyrdi, spott og forakt flest, fjandmenn þér ecki spara, á þinni píslar þúngu tíd; þad svo mér yrdi fyrr og síd, upphaf til æru-kjara.

Þústradur, hræktur, hæddur varst, hvørsum þyrni- vid krýndur, purpura slík med forsmán barst, falsheidur var þér sýndur; reyrstaf í hønd þér lýdur lét, med limsku spotti þig konúng hét; þúngliga þú varst píndur.

Þvílík var minna synda sekt, sem tídum nidrad hafdi, med glæpum dýrd þíns Fødurs frekt, fordæm-ing løgmál krafdi; þú tókst uppá þig þrælsins søk, þaug urdu minnar lausnar røk, drómi hvørn daudans vafdi.

Géf mér þinn Anda', ad géta nú, greidt þér þá vegsemd kjæru, sem fylgir hlýdni af traustri trú, med

Digitized by Google

trygda lunderni skjæru; og leita þess sóma ad líkjast þér, í lífi og dauda, rétt sem ber, svo eylífa' ég ødlist æru.

## 4da Bæn.

Hvørnig fæ eg, minn Herra Jesú! goldid þér verdugar þackir, fyrir alla þá písl og smán, sem þú á þinna lífstunda sídurstu dægrum, fyrir mig leidst? Þó allur minn innri madur brynni af heitustu elsku til þín, og girnd ad gjøra þinn vilja, væri ad sønnu meir enn makligt, en þó allt of lítid og kalt þacklætis teikn þér til handa. O! þú heilagi Guds Sonur! hvørn allir englar og høfudenglar tilbidja, og af blygdun byrgja sín andlit fyrir tign þinni; hvílíka smán máttir þú mín vegna lída í húsum høfdingjanna í Jerúsalem! Høfudprestanna þénarar spottudu þig, byrgdu þína ásjónu og pústrudu; eins breyttu strídsmenn Pílatusár vid þig, þeir færdu þig í eina purpura flík, feingu þér reyrstaf fyrir veldissprota í hønd, krýndu þig med þyrni-kórónu, og og hræktu sídan í þitt blessada andlit. Á líkan hátt hafdi Heródes og hoffólk hans þig ad hádi.

Þetta leidstu nú, Drottinn minn! fyrir þá skuld, ad eg, og adrir andvaralausir syndarar, høfum svo opt rétt sem spottad Gud og vanbvirdt med syndum vorum, og høfum því unnid til ad verda ad eylífu spotti og athlátri, í augsýn allra heilagra. Æ, hjálpadu mér, Drottinn Jesú! fyrir þinn Anda, hjálpadu

mér, ad eg eptir þetta dragi aldrei vísvitandi gis ad ordum þínum, hvorki med opinberum glæpaverkum, né heimugligri hræsnis tilbeidslu. Géf mér audmjúkt og hreinskilid hjarta til þinnar dýrdkunar og þjónustu. Láttu mig aldrei skammast mín fyrir þig né þín ord, heldur adeins fyrir þad líferni til orda og verka, sem móti þeim stríbir. Veit mér ad eg meti þad fyrir mína stærstu æru, ad fylgja þér í forsmán þinni, bædi med því ad játa þig opinberliga fyrir minn Gud og Endurlausnara, þó þú af vantrúudum forsmádur sért, og líka med því ad idka þad líferni, sem þínu líkast er, enda þó heimurinn þad einkis akti. Eg vil ánægdur vera med hvor helst þaug kjör, hvort heldur æru edur forsmánar, sem þér þóknast mér, hér í heimi, ad tilskicka, ad eins, ad eg haldi hinni sönnu æru, út af trúnni og kjærleikanum, hjá þínum himnesska Födur, og eg hafi þess vissa von, ad þú á sídan munir upphefja mig, til eylífrar æru og dýrdar, ásamt öllum þínum útvöldum. Bænheyr mig, þú dýrd- og heidri-kórónadi Jesú! vegna allrar þeirrar vanvirdu og smánar, sem þú, fyrir mína skuld, í þinni pínu lída máttir, svo eg géti heidrad og lofad þig þarfyrir eylífliga! Amen. Fadir vor 2c.

Vers: Þú sem varst hæddur, Herra minn! þá heimurinn smádi gudbóm þín; eylíf svo græddist æra mín, útaf hádúng og píslum þín; forsmán syndanna ad forda mér, Frelsari minn! eg treysti þér, dag og nótt medan dvelst eg hér!

---

## 5ti Sálmur.

Laúsnari gódur, lof sé þér, fyrir lídíngu þína og dæmi; hvørttveggja sem þú hugdir mér, til holl-ustu-nota kæmi. Lídíng þín fridar fyrir mig, en fyrimindin þín elskulig, sýnir hvad best mér sæmi.

Þolinmædi hvad þín var stór, í þinni gjørvallri pínu, sýnir, ad eg skal sinnis rór, sjást í andstreymi mínu; kjærleik sýndir þeim sýndu þér — saklausum verstu mótgjørdir; dýrd skín af dæmi þínu.

O ad eg gjæti, einsog þú, óvinum grida leitad; því besta merki' er breytni sú, ad bródur þinn meigi' eg heita. Fæ eg þá njóta frelsis þín, til fullnadar bóta verkum mín; nád til þess virdstu veita!

Eins lát mig vera óhræddann, æru þíns nafns ad verja; lát mér ei bapraft dugnad þann, þó dramb-samir vilji' áherja; heldur med einørd halda fast, heidrun þíns kross, þó reyni last, þeirra, sem þig af-sverja.

Allt til míns dauda lát mitt líf, lífi sameinast þínu, hvørt sem eg reyni kjætt' eda kíf, kjærleik í hjarta mínu, þolgjædi og einørd vidhaldt vel; svo veittist mér, eptir lidid hel, eylífd med yndi sínu!

## 5ta Bæn.

Lofadur vertu, minn Herra Jesú! fyrir allt þad da sonnú, sem þú, min vegna, svo vel gjørt sem

lidid hefir; en þó sér í lagi fyrir það, hvørsu þú hegdadir þér í þinni pínu, mér bædi til fyrirmindar og frelsis. Þú hegdadir þér þolinmódliga, fyrir þínum Fødur í grasgardinum og fyrir þínum kvølurum í Jerúsalem, svo þú upplaukst ecki þínum munni; heldur enn lamb til slátrunar leidt. Þú hegdadir þér einardliga í sannleikans vidurkénníngu, svo vel fyrir þeim ypparsta presti og því stóra rádi, sem fyrir sjálfum landsdómaranum Pílato. Þú hegdadir þér kjærleiksliga vid þína verstu fjandmenn, svo þú læknadir þann, sem Pétur hjó af eyrad, og létst þad vera þitt fyrsta ord á krossinum, ad bidja þínum kvølurum vægdar hjá þínum himneska Fødur. Æ, géf mér ad eg gángi í þessi þín fótspor, svo eg verdugliga beri þad nafn, at heita þinn lærisveinn og eptirfylgjari. Veit mér ad lída þolinmódliga hvad helst Gud edur menn kynnu á mig ad leggja í heimi þessum, svo eg aldrei falli í víl né ørvæntíngu. Géf mér samt eingu ad sídur, ad vera óhræddum og einørdargódum ad vidurkénna sannleikann og forsvara, allt til daudans, hvørsu sem hann, eda eg hans vegna, kynni hafadur eda ofsóktur verda. Já géf mér, ad eg aldrei hatist vid þá, sem mér rángt til gjøra, heldur hjartanliga bidji um þeirra betrun og sáluhjálp, og jafnvel stydji af allri alúd til þeirra tímanligu og eylífu lucku. Æ, Herra Jesú! lát þinn Heilaga Anda fastliga innræta þetta hugarfar sálu minni, svo sem eitthvørt hid vissasta merki þess, ad í mér búi lifandi trú á þig og þína fridþægandi

pínu og dauða; hvørrar trúar endalok þú gef mér síðan að ødlast, nefnilega það eylífa líf, hvar þolinmæðin mun krýnast, sannleikurinn sigri hrósa og kjærleikurinn drottna, meðal allra þinna útvaldra að eylífu. Bænheyr mig vegna þinnar heiløgu þolinmæði, þú sannleikans og kjærleikans himneski Kóngur! svo eg þig vegsamað fái með øllum útvøldum, um aldir alda! Amen! Fadir vor 2c.

Vers: Það er undirrót þess føgnuðs, þolinmóðasta lambið Guðs! sem eg í vænd um eylífð á, að þú varst píndur mønnum hjá; kjærleikur brann í brjósti þér, blessaður vildir hjálpa mér; gef eg þín fótspor feti hér!

---

## 6ti Sálmur.

Þúsundfaldt stærri þakkargjørð, þér, Jesú! greiða bæri, af þinna leysíngja þjóð á jørð, enn þá sem eg vesæll færi. Æ, eg vil samt það greiða' eg get, greiðslur mína í náð þú met! rétt sem hún velgreidd væri.

Ómælanlig var elska þín, alla þá kvøl að líða, viljugur sem leiðst vegna mín, svo veittist mér náðin fríða; fjøtraður, laminn, fleingður varst, fléttaða af þyrnum krónu barst, á krossinn keyrður síðan.

Eg hafði sjálfur unnið til, að eylífu verða píndur, í dauða straffsins djúpum hyl, dóm slíkan

løg þín syndu; en, Herra! þú soktir sjálfum þér, sárheitan í þann písla hver; aldrei svo yrdi' eg tíndur.

O, ad eg gjæti elskad þig, sem einkénni er þinna sauda; og ad mín elska sýndi sig, í sæld bædi' og kjørum nauda! Æ, ad eg galdar girndir mín, géti med písla minníng þín — dempad, allt til míns dauda.

Hughraustur gét eg hlackad þa, hédan — til farar minnar; muń eg, Jesú! þig sjálfan sjá, í sælu dýrdar þinnar; fæ eg þar reynt hvad frelsan þín, til fridþægíngar sálu mín, gjørt hefir gott ávinna.

## 6ta Bæn.

Þúsundfaldt stærri þackir og lofgjørd fé þér, minn elskuligi Frelsari, Herra Jesú Christi! fyrir alla þína fridþægjandi písl, sem þú mín og allra manna vegna lidid hefir, þúsund stærri, segi eg, enn eg vesæll og voladur syndari fæ í tje látid! O, hvørsu ómælanlig var þin elska, sem kom þér til ad gefa þig viljugann undir þær grimmu píntíngar, er þínir óvinir á þig løgdu! Þú ljest fjøtra þig, sem fridarspillara, pústra þig sem lastaþræl, krýna þig þyrnum sem kóngdóms spottara, húdstrýkja þig sem versta illvirkja og krossfesta þig sem stærsta óbótamann. Æ, þetta leidstu, minn Jesú! allt fyrir mína skuld. Eg hafdi seldt mig til ad vera þræl syndarinnar, og leid

alla mína limu ránglætinu til verkfæra; þessvegna hlautst þú á öllum þínum líkama limum plágadur ad verda. Eg hafdi sem landrádamadur uppreisn gjört móti konúngi himins og jardar, og unnid til eylífs Drottinssvikara straffs med djöflinum og öllum hans árum; en þú tókst fyrir mig einn vid öllu straffinu, svo eg frelsadur yrdi, fyrst frá þrældómi syndarinnar hér í lífi, og sídan frá hennar straffi annars heims. Æ, géf mér þá nád, ad eg til eins þakklætis- og elsku-merkis vid þig fyrir þessa þína stóru velgjörd, gjöri þad sama vid minn gamla mann og girndir míns holds, sem þínir óvinir vid þig gjördu. Géf mér ad eg leggi fjötur á mínar vondu gédshræríngar; þvíngi minn vilji til ad þjóna þínum vilja; dempi nidur hjá mér alla drambsemi og sjálfs-þótta; særi mína sofandi samvitsku med svipum þíns lögmáls og krossfesti mitt hold med þess girndum og tilhneigíngum. Géf ad þessir ávextir lifandi trúar sig hjá mér æ framar og framar í ljósi láti, svo eg þinni mind æ líkari verdi, uns eg á himnum fullkomliga leystur frá allri syndarinnar þján og þræl-dómsoki, fæ ad ríkja med þér í þinni dýrd ad eilífu. Bænheyr mig, ó Jesú! vegna þinna fjötra, pústra, húdstroku og krossfestingar; já, vegna alls þess, sem þú mín vegna lidid hefir, svo eg þig ad eylífu lofa og vegsama meigi! Amen. Fadir vor ꝛc.

**Vers:** Lifandi Jesú! lof sé þér! lífgjöf fyrir, sem veittir mér, med húdstroku þinni krýníng, kross,

kvölum daudans og benja foss, hrína láttu þad allt mér á; öruggur strída mun eg þá; en loks á himni fridland fá!

## 7di Sálmur.

O! ad eg hefdi Engla mál, elsku vegsama þína, Jesú! er lést þitt líf og sál, lausnar til medals pína; fórn Gudi slíka færdir þá, er forlíka veröld alla má, eins þar med öndu mína.

Svo mögnud syndin eingin er, ad kunni mér ad granda, trúar augum ef til þín hér, tárugum lypti' í anda; eignandi mér þitt offur-blód, út sem helltir til lausnar þjód; sú von má stödug standa.

Hefir nú lögmáls hótan stríd, hitt þig fyrir oss alla; þinn daudi er ordinn lífgjöf lýd; lífid mun þeim tilfalla, sem elska þig og trúa' á traust, tryggd þér vottandi hræsnis-laust, en fordast glæpa galla.

Daudi þinn, Jesú! deydi í mér, daudann er sálu grandar; í lifandi trú svo lifi' eg þér, lífs medan dreg eg anda; óttast eg þá ei afgáng minn, opnad fyrir mér loksins finn, sæluport lífsins landa.

Eylíft Sabbath í Eingla borg, eg mun þá gladur halda, nær horfin er burtu synd og sorg, er sælan veitt þúsundfalda. Dagur sá renni dýr sem fyrst, ad dýrdkad fái' eg þig, Jesú Christ! já, dýrdkad um aldir alda.

## 7da Bæn.

O, ad eg hefdi Eingla hjarta og túngu, til ad þacka þér, minn Herra Jesú! fyrir þinn blóduga fornfæríngar dauda, sem þú á krossins gálga, á Golgatha fjalli, fyrir mig útstódst. Þar frambarst þú, med sjálfum þér, þá forlíkunar fórn, sem einsømul nægir til eylífrar fridþægingar fyrir alla. Þetta var eitt þvílíkt offur, til hvørs allar fórnir gamla Testamentisins midudu, og af hvørju þær høfdu allt sitt gildi; þvílíkt offur, sem þínum himneska Fødur líkadi svo vel, ad hann krefst nú eingis annars offurs fyrir syndir heimsins framar; svo ad hvør og ein sú manneskja, hvørsu stór og þrálátur syndari, sem hún ádur verid hefir, ef hún í sannri ydrun, med lifandi trú, ad samfarandi einlægri lífernis betrun, framber þetta offur fyrir hans heilaga augliti, fær vissuliga allra sinna synda fyrirgéfníngu. Med þínum dauda, er Guds løgmáls hótan um daudann, sem syndarinnar straff, uppfyllt, svo þar er þá ei leingur nein fordæmíng á þeim, sem eru þér, fyrir trúna, sameinadir. Já ecki einasta sýndi þinn daudi sig krøptugann í því, ad hindra yfirtrodslurnar, innsigla syndirnar og fridþægja fyrir misgjørnínginn, heldur og einnin í því ad innleida eitt eylíft réttlæti. Því einsog syndin ríkti til daudans fyrir Adams ránglætis skuld, svo skal nádin, fyrir þitt réttlæti, ó Jesú! ríkja til eylífs lífs.

O, hvørsu sterkur var þinn kærleiki, Drottinn

minn og Gud minn! já, sterkari enn daudinn, þat þú ei færdist undan ad deya í minn og annara stad, sem allir vorum þó, af náttúrunni, þínir óvinir.

Hvørnig fæ eg, minn Láusnari! innt þér nockurt verdugt þacklætis merki aptur ámóti, fyrir þessa þína ómetanliga velgjørd? Eg gét það með eingu ødrur svo sem því, ad eg, þér til heidurs, kappkosti af øllum mætti, medan eg lifi, ad deya frá syndunum, en lifa réttlætinu. Æ, láttu þá krapt þíns dauda, fyrir þinn Anda, verka þetta hjá mér, þar eg annars hefi eingin not af dauda þínum, og hlýt allt eins ad deya í mínum syndum, þó þú fyrir þær ádur dáid hafir.

En nær þú gefur mér þetta framkvæmt ad géta, þá má eg hlacka til míns dauda, sem annarar hátídar, þar hann verdur mér þá inngángur til himneskrar sælu, hvár eg, ásamt øllum þínum helg. Einglum og útvøldum, fæ ad halda eitt gledilígt dýrdar Sabbath í þínu ríki eylífliga. O bænheyr mig um þetta, Herra Jesú! og gef ad sá blessadi dagur meigi upprenna sem fyrst, ad eg fái ad sjá þig í þinni dýrd, til ad dýrdka þig þar og þacka þér fyrir þinn fridþægjandi fórnar dauda! Amen. Fadir vor ɀc. Drottinn blessi ɀc.

Vers: Fyrir þitt dýra fórnar blód, til frelsis allri sem létstu þjód — úthellt, Jesú! eg inni þér — audmjúkar þackir; veittu mér, ad daudi þinn verki

velferd mín, svo verdi' eg í líkfins sal til þín — hafinn, hvar eylíf dýrd ei dvín!

---

Merk: Sálmarnir hér ad framan kunna ad sýngjast, eptir sem hvør vill, med þessum løgum: Um daudann géf þú Drottinn mér — Eylífur Gud og Fadir kjær. — Lifandi Gud — þú lít þar á. — Pá linnir þessi líkams vist, — og fleirum; en Versin med þessu lagi: Heidrum vér Gud af hug og sál.

